11. NÓV. 1835 — 11. NÓV. 1905

# MATTHÍAS JOCHUMSSON

Í TILEFNI AF 70 ÁRA AFMÆLI HANS.



REYKJAVÍK.
DAVID ÖSTLUND
1905

*Til*

*SÉRA MATTHÍASAR JOCHUMSSONAR.*

*Bók þessi er gefin út í minningu um 70 ára afmæli yðar 11. nóv. 1905. Hún á að votta yður virðingu og þakkir fyrir skáldskap yðar frá mér og höfundunum og frá hinni íslenzku þjóð, að því leyti, sem efni bókarinnar samsvarar þeirri skoðun, sem þjóðin hefir á hinu mesta skáldi sínu.*

*Heill og friður krýni æfikvöld yðar!*

David Östlund

## 11. NÓV. 1835. – 11. NÓV. 1905.

Matthías Jochumsson er fæddur 11. nóv. 1835 í Skógum í Þorskafirði, inn af Breiðafirði. Bærinn Skógar standa nálægt botni fjarðarins og hefir séra Matthías lýst bernskustöðvum sínum svo í ritgerð, sem ég hef við hendina:

».. . Landeignin var þá enn (þ. e. á uppvaxtarárum M. J.) mjög vaxin skógi, þótt síðar hafi mjög úr sér gengið sakir eyðslu og hirðuleysis. Næsti bær heitir á Kollabúðum, sem fundirnir nú eru við kendir, og er þó þingstaðurinn í Skóga landi. Í Skógum bjó fyrst Oddur skrauti, faðir Gullþóris. Tjáist Oddur liggja í Kjalarhóli þar í túninu. Þar var leikvöllur okkar barna, og síðan ótal aðrir skemtistaðir, svo sem Stokkshjalli, hátt uppi í fjallinu yfir bænum. Þar er haugur mikill, eða hóll, og heitir Stokkshaugur; þar segir sagan að Gullþórir feldi Þorbjörn stokk, banamann föður síns. Var hola mikil niður í koll hólsins, og var okkur sagt, að gat væri þar niður í haug-

inn og byldi í ef steini væri kastað niður. Reyndum við bræður það síðar, er við þorðum, en urðum lítils varir. Bærinn Skógar stendur á hjalla, fjögur til fimm hundruð fet frá ströndinni; þykir þar allfagurt á sumrum og er þó fremur harðlent og hrjóstrugt; gengur hjalli af hjalla upp undir fjallsbrún, en þó ekki mjög klettótt, eða snarbratt, og gil og grasbrekkur nógar, enda »álfaslot í hverjum hamri,« eftir trú okkar barna. Uppi á fjalllendinu gnæfa hin alkunnu Vaðalfjöll, sem sjást hvervetna frá úr Breiðafirði, svo og víða norðan frá. Þau eru illkleif og úr afarstórgerðu stuðlabergi. Undir þeim fundum við í einni eða tveimur djúpum lautum hrúgur af skeljabrotum, steindum, og kunni enginn að segja með hverju faraldri þær menjar væru þangað komnar, 1200 fet, eða meir, frá því fjöruborði sem nú er. Af Skógafjalli þótti okkur bræðrum brosa við öll ríki veraldar og þeirra dýrð, þegar við gættum fjár þar uppi í sumardýrðinni. Engin útsýn liggur mjer jafnföst í minni, og eru þó 60 ár síðan ég naut hennar síðast.«

Um ætt séra Matthíasar og bernskuár í foreldrahúsum hef ég einnig sögu sjálfs hans, og segir hann svo frá: »Faðir minn var Magnússon, Magnússonar Halldórssonar. Þeir þrír langfeðgar höfðu búið í Skógum. Átti lang-

afi minn Guðlaugu dóttur Bjarna á Kollabúðum. Bjarni var bróðir Arnfinns gamla á Hallsteinsnesi. Voru þeir skagfirskir að ætt og þóttu báðir mikilhæfir bændur og kynsælir. Snókdalín rekur ætt þeirra í karllegg til Björns officíalis Gíslasonar, fóstra Odds biskups. Það er Vindhælisætt. Magnús langafi minn var og norðlenzkur. Svo sagði faðir minn, eftir föður sínum, að hann hefði verið lítt bóklæs, en vasklegur maður og átt góða hesta. Hann bjó vel, en misti allar skepnur sínar í móðuharðindunum 1783, nema merhryssi eitt, er gekk um sveitina og lét allar tennurnar. 11 hross hafði hann þá mist. Þá var afi minn, Magnús, 18 vetra og bæði mikill og sterkur. Báru þeir feðgar — því ekki urðu þá hjú haldin heima — alla björg á baki sér yfir heiðar. Aldrei kvað afi minn hafa óklökkur minst á þá daga, og hafði þó ekki þótt maður blautgeðja. Hann var lesinn vel og sæmdarmaður. Svo sagði mér séra Sveinn Níelsson prófastur, því hann mundi afa minn, en þeir afi minn og Níels voru vinir. Amma mín, kona Magnúsar, var Sigríður Aradóttir frá Reykhólum; er ætt sú alkunn (Reykhólaætt). Hún var fríð sínum og góðkvendi, en dó vart miðaldra. Þóra móðir mín var alsystir séra Guðmuudar Einarssonar, síðast á Breiðabólstað á Skógaströnd. Hún

ólst upp hjá Eggerti bónda í Hergilsey Ólafssyni (d. 1819), langafa sínum, og var 12 ára er hann létst. Eggert var merkastur maður í hennar ætt, sem hún hafði spurn af, og er allmikil saga af honum, eftir Gísla Konráðsson. Höfðu foreldrar hans orðið öreigar í harðindunum, en sonur þeirra varð stórauðugur maður fyrir vitsmuni sína og atorku. Kunni móðir mín margar frægðarsögur af fóstra sínum og margar sögur um hið fjöruga og breytilega eyjalíf. Vöktu þær sögur snemma ímyndunarafl okkar barnanna, enda kunni hún undarlega vel að segja frá og gera okkur mikið úr litlu. Fóstra hennar, þriðja kona Eggerts, er síðar giftist Gísla Thóroddsen, föðurbróður Jóns skálds Thóroddsens, unni móður minni mikið, en varð ekki sælli við síðari ráðahaginn. Byrjuðu þá raunir móður minnar. Og er hún var nær tvítug, dó fóstra hennar, en foreldrar hennar meinuðu henni að eiga mann, er hún hafði lofast. Druknaði hann og skömmu eftir þetta af þilskipi, er hann stýrði fyrir Guðmund kaupmann Skeving í Flatey. Móðir mín undi ekki í foreldrahúsum, í Skáleyjum, og lét því til leiðast að ganga að eiga föður minn. Er mælt að hún væri honum miður sinnandi í fyrstu, og mest sakir harma, en smásaman greiddist þó alt um samfarir þeirra, svo að sumum þótti

fyrirmynd. En ekki var ég orðinn gamall þegar ég þóttist skynja, að skapsmunum þeirra bar mikið og margt í milli, þó dult færi og þau sjaldan deildu svo að við börnin heyrðum. Þau voru, eins og oft gerist, bæði lík og ólík. En alt jafnaði sig, líklega mest fyrir ástríki hans, þrátt fyrir dutlunga og einræði, og svo fyrir viturleik hennar og yfirburði, einkum í því að temja geðsmuni sína til stillingar og göfuglyndis. Hef ég enga konu þekt hennar líka að þeim kostum og fleirum. Hún var að eðli mjög glaðvær í lund og gat hent gaman að öllu, og þótt hún hefði fáar bækur lesið, varð henni undarlega mikið úr öllu, sem eitthvað var nýtt í, gott eða fagurt, stórt eða satt. Heldra fólk og mentað tók lengi til hennar, ef það hafði kynst henni, eða komið að Skógum. En föður mínum, þótt einhæfur væri, var líka margt vel gefið og naut hann ávalt virðingar og vináttu hinna beztu manna. Hann var mannvinur mikill, og svo gestrisinn, að hann jafnaðarlega gekk í veg fyrir fólk, leiddi heim fagnandi og hét á móður mína, að bera óðara á borð það eða það sælgætið sem oftlega ekki var til! Faðir minn var hinn mesti garpur og hverjum manni þolnari við strit og vos; tveggja maki til flestra starfa; hvort heldur hann kunni verkið vel eða miður; þóttu t. d. byggingar hans og viðgerðir

misjafnar að áferð og endingu. Oft var þröngt í búi í Skógum, en kæmi fyrir að faðir minn skuldaði manni nokkuð, varð hann hugsjúkur, sem og oft endrarnær í kröggum og vanda; varð þá móðir mín að tala kjark í hann, og tókst henni það venjulega svo vel, að hann lék á als oddi; tók þá karlmenskan aftur við stýrinu, en hið barnslega og sjúka hvarf fyrir borð. Hann var oftlega djúphugsi og vissi ekki hverju fram fór; hann hafði ríkt og frábrugðið sálarlíf, var draumspakur og sagði ekki fáa hluti fyrir. Hugsýki og hjartveiki stríddu lengi á hann, og tókum við börn hans sumt af því í arf. Þó sagði hann svo — og það fanst mér satt vera — að með ellinni kvað minna og minna að þeim heilsubrigðum hans, enda var hann örgeðja og bráði fljótt af honum, svipað sem barni. En hvað móður mína styrkti og hélt skapi hennar í jafnvægi, var okkur börnunum miður skiljanlegt, því síður sem við sáum, að hún átti við eins miklar annir að stríða, en meiri skapraunir og sífeldan skort á þeim hlutum, sem nauðsyn og sómi heimilisins heimti. Og þó hefir okkur þar yfirsézt. Hún hefir haft sína huggun og hressing innan frá, og svo hjá okkur börnum sínum. Þóttum við snemma vel gefin — eftir því sem kunningjarnir ótæpt og of greinilega létu okkur sjálf

heyra. Var það beggja foreldra okkar yndi, og þó oftar hennar, að örva námfýsi okkar og eftirtekt. Hennar venja var, að segja okkur frá »þegar hún var í Hergilsey«, »þegar Eggert var ungur«, eða »þegar hann var orðinn níræður og t. d. sagði: »Tóta, fáðu mér sólina!«. En þá meinti hann í vanmætti sínum og óráði sílfurdósir sínar. Stundum sagði hún okkur frá stríðinu, þegar Englendingar skutu á Kaupmannahöfn, því þá var Gísli Thóroddsen þar; stundum sagði hún okkur frá atburðum og afreksmönnum biblíunnar, eða þá frá göldrum og brellum afa síns til þess að ónýta árásir hinna fjölkunnugu Arnfirðinga; stundum talaði hún um eyjalífið, fuglana, fiskana og dýrin, grösin og allskonar afbrigði, sem við sáum ekki né þekkjum; hún bygði með okkur bæi og skip og sagði frá ótal æfintýrum frænda sinna, sjómannanna. Sjálfir lærðum við bræðurnir snemma að stauta sögur og rímur, fögur ljóð og leirburð, og varð okkur jafngott af öllu, eins og hinum misjöfnu vistum, sem á borði voru.

Við vorum lengst af saman þrír bræðurnir, hinir elstu sem lifðu: Eggert, f. 1832, Magnús, f. 1834, og ég. Næstur okkar var Ari; hann ólst upp á Kollabúðum, næsta bæ, og var þó oftlega með okkur. Hinir, Einar, Sæmundur

og Samúel, voru yngri. Þeir elztu tveir, og svo Ari, voru töluvert fljótari á legg og lagaðri til vinnu en ég, en helst til snemma var þeim of mikið ætlað, eftir kröftum, og mun það hafa kipt þroska og fjöri úr hinum elzta að minsta kosti. Um okkur alla fjóra var snemma sagt, að við værum næmir og liðlegir og »efni í skáld«.

Oftlega skemti móðir okkar vinkonum sínum með því að segja þeim frá afreksverkum okkar drengjanna, með orðbrellum okkar og tiltektum; stóðum við þá stundum á hleri og hlýddum á. Fór hún vel og heldur frjálslega með söguefnið, en glögg einkenni á sjálfum okkur lærðum við á þessu, eigi síður en þeir sem við var talað. Ég var snemma auðgintur og virðingagjarn og fundu bræður mínir það fyrstir og neyttu þess dyggilega — á minn kostnað. »Þetta veður enginn af okkur nema Matti,« sagði annarhvor hinna eldri, og óðara en orðið var talað stóð ég í pyttinum upp í mitti, eins og hafurinn í brunninum hjá lágfótu. »Þetta stekkur nú enginn okkar,« sagði Eggert — við stóðum á baðstofugaflinum. »Nei«, sagði Magnús, »og nú þorir ekki Matti!« Þá svaraði eg í vígamóði: »Hvort ég drep mig eða drep ekki, þá skal ég stökkva það,« og þeyti mér fram af gaflhlaðinu. Þar lá ég svo

og gat mér engar bjargir veitt, en hljóðaði af sársauka. En er móðir mín þóttist finna, að ég var hvergi meiddur, lét hún segja sér tildrögin, og sveið mér skjótt meir en sársaukinn að verða þess var, að hún hristist af hlátri þar sem hún sat undir mér. Þó var ég henni þakkþakklátur fyrir, að hún hvorki ávítaði mig né hló að mér opinberlega, en lét aðvörunina lenda á hinum.

En minnistæðara öllu öðru frá þessum fyrstu bernskuárum er mér það sem ég sízt má lýsa, eða segja frá, en það eru hin miklu og margkynjuðu áhrif náttúrunnar á hina næmu en fávísu barnssál, — eins og allir munu kannast við, sem börn hafa verið og alist upp á móðurskauti stórfeldrar náttúru, en fjarri hégómaglaumi stórbæja og margmennis. Alt var okkur sögulegt, með einskonar persónublæ og sem lifandi; gil og gljúfur voru okkur álfheimar og ódáinslönd; lit- og veðra-brigði, kvöld og morgnar, fjörðurinn og fjaran, snjórinn, skuggarnir, fjöllin, klettar og klungur, þytur fossanna, ómur þagnarinnar á hinum skuggalegu öræfum uppi á heiðunum, og ekki síst hinir miklu, blessuðu skógar með hreiðrin og fuglasönginn á vorin; alt þetta, og hvað fyrir sig, heldur bernskunnar hugblæ meðan minni og meðvitund endist. En hinsvegar er virkileikinn með lífið og þess stríð

ávalt innanum og saman við hjá sveitabarninu, og hin ýmsu störf og þarfir árstíðanna trufla draumlífið og breyta því dags daglega. En sumt er í sjálfu sér svo skáldlegt og skemtilegt fyrir barninu, að það mildar og temprar hið stirða og stríða með sykri unaðar eða tilhlökkunar. Svo er stekktíðin á vorin, með lömbunum og — mjólkinni frá munnunum á þeim; fráfærnatíðin, með lambarekstri fram á reginfjöll; réttirnar á haustin, þegar lömbin koma af fjöllunum og haustlífið byrjar; allar skepnur, húsdýrin fyrst, fé, kýr og kálfar, hestar og folöld, hundar og kettir, einkum ungviðið, og loks fuglarnir, fiðrildin, blómstrin og berin — ekki að gleyma berjunum! Alt þetta er ríki, auðlegð, afkoma og unaður barnsins. Og hve lítið hafa börnin í borgunum af öllu þessu að segja! Eða, mundi ekki þessi auðurinn, þessi *skólinn* vega á móti »fyrsta bekk« í borganna barnaskólum, bæði fyrir höfuð og hjarta?

En mestu skiftir þó, hvernig við börnin er búið. Við áttum góða og göfuga foreldra mörgum fremur og *vissum* það; þóttumst því jafnsnjallir sonum meiri háttar fólks. En oft var þröngt í búinu á vorin; þoldum við það betur sakir aukinnar lífsgleði þegar alt var að lifna. Lestrarfélag var þar þá í sveitinni, og var ávalt mikill fögnuður á ferðum, þegar belg-

urinn kom með bókunum. Prestur okkar, séra Ólafur Johnsen á Stað, ástvinur foreldra minna og loks tengdafaðir minn, vakti og töluvert náms- og framfara-löngun okkar, var ræðinn og skemtinn, einkum á tali við móður okkar, sem honum jafnan fanst mikið til um, enda léði hann og ýmsir fleiri okkur bækur. Hann henti og stundum gaman að mér, því síst vildi ég láta slíkan mann koma að tómum kofunum.«

Svo lýsir séra Matthías bernskuárum sínum, fram til þess er hann var nær ellefu ára. Eftir það dvaldi hann ekkert að staðaldri í foreldrahúsum. Á ellefta ári var hann léður til smávika um sumartímann á bæ í næstu sveit, er Hlíð heitir, og minnist hann þess enn, hve afarilla hann kunni þar við sig og, hve heitt hann þráði að komast heim aftur til foreldra og systkyna, einkum móður sinnar. En árið eftir þrengdist mjög efnahagur foreldra hans við fjármissi og var Matthíasi þá komið í ársvist að bæ í næstu sveit. En vorið 1848 kom móðir hans honum fyrir hjá bróður sínum, séra Guðmundi, er verið hafði aðstoðarprestur séra Ólafs prófasts í Flatey, tengdaföður síns, en nú hafði fengið Kvennabrekku. Mun það hafa verið ætlunin, að Matthías lærði þar undir skóla. »Hugði ég gott til fararinnar,« segir hann; »mundi nú varla hjá því fara, að ég yrði prestur!

Ég hafði sem sé stöku sinnum stunið því upp við guð, að gefa að ég yrði prestur; hafði gömul kona spáð mér því þá fyrir þrem árum.«

Á Kvennabrekku var Matthías þrjú ár, og fermdist þar. En ekkert varð úr lærdóminum. Þar segist hann »fyrst hafa heyrt frábrugðnar skoðanir á lífsins leyndardómum.« Það var hjá manni, sem til náms var hjá móðurbróður hans og miklu eldri en Matthías. Hann var meðal annars rammasti trúleysingi og stóð Matthíasi stuggur af skoðunum hans.

Foreldrum Matthíasar þótti nú lítið ætla að verða úr lærdómi hans og menning á Kvennabrekku. Komu þau honum þá til Sigurðar kaupmanns Jónssonar (Johnsens) í Flatey; en þeir Jochum, faðir Matthíasar, og Sigurður voru systra synir. Í Flatey þótti Matthíasi alt hlægja við sér og undi hann sér þar hið bezta. Segir hann, að um það leyti sem hann fór frá Kvennabrekku hafi verið farin að vakna hjá sér öflug námsfýsn og menningarþrá: »Ég var þá enn lítill vexti eftir aldri og óknár, en að glíma hafði ég lært, svo og þjóðsögur og allskonar alþýðufróðleik. Er það skrítið, að margt þess konar hvarf mér að mestu úr minni eftir að ég tók að lesa bækur með áhuga. Dálítið kunni ég að draga til stafs og í einfaldasta reikningi. Nú hóf ég að læra hvorttveggja af eigin ram-

leik, svo og dönsku. Ég skyldi vera í búð, en hafði mikla aukatíma og lifði að mörgu leyti í sjálfræði. Kaupmaður og kona hans, dóttir Brynj. kaupm. Benedictsens, fóru með mig sem kæran ættingja, enda unni ég þeim brátt hugástum. Hann átti gott og snoturt bókasafn, og í því lá ég nætur og daga.« Á vetrum var Matthías í kenslu hjá séra Eiríki Kúld, sem þá var aðstoðarprestur föður síns í Flatey, og kveðst eiga honum mikið að þakka fyrstu framfarir sínar, og þó eigi síður konu hans; hafi hún fyrst allra þótst finna hjá sér annað og meira en almennar gáfur. Á sumrum vandist hann sjómensku. Telur hann árin frá 1852—59 blómatíð æskuára sinna.

Svo var þá til ætlast, að hann yrði verzlunarmaður. Og haustið 1856 sigldi hann til Kaupmannahafnar til þess að mentast í þeim fræðigreinum sem verzlunarmönnum eru nauðsynlegastar. Hann fékk illa ferð og var 38 daga í hafi. Um veturinn dvaldi hann í Kaupmannahöfn og lærði ensku og þýzku hjá þeim Jóni Sveinssyni, síðar skólakennara, bróður Hallgríms biskups, og Bjarna Magnússyni, síðar sýslumanni. Að öðru leyti hafði hann danska kennara og »komst töluvert á veg, en í engu langt,« að því er hann sjálfur segir. Í Kaupmannahöfn umgekst Matthías mest íslenzka stúdenta, og segir hann svo frá því: »Heldur þótti mér

landar vorir óspakir, enda stóð þá sú öldin sem hæst, var og stutt liðið frá »pereats«-árunum. En mjög voru íslenskir stúdentar þá vasklegir og vel að sér, en sumir manna fríðastir. Við þessa kyntist ég helzt, auk þeirra sem kendu mér: Arnljót Ólafsson, þá Blöndalsbræður, og var Magnús þeirra knástur og fríðastur, Steingrím Thorsteinsson, og urðum við brátt vinir. Þeir Guðbrandur Vigfússon, Benedikt Sveinsson, Stefán Björnsson, Sig. L. Jónasson og Lárus Sveinbjörnsson höfðu þá lokið prófi, eða voru að því komnir. Þá kyntist ég og Magnúsi Eiríkssyni, Sigurði málara og ýmsum, sem ég aldrei síðan sleit viðkynning við.«

Vorið eftir hélt Matthías heim og var á skipi með lausakaupmanni á ýmsum höfnum um sumarið, en settist að um haustið hjá frænda sínum í Flatey. Þá um haustið kom það fyrst til orða, að hann færi í skóla, og var það frú Kúld, sem fyrst hvatti til þess. Segir séra Matthías svo frá því: »Eitt kvöld gekk ég suður í eyna til Kúlds og skyldi lesa ensku, sem ég þá var vanur, með vinkonu minni, frú Þuríði Kúld, og systur hennar. Þegar við vorum sezt, sendir frúin systur sína fram, en segir við mig: »Ég ætla að biðja um frí, en segja þér sögu í staðinn.« — »As you like,« svaraði ég drjúgur,

en grunlaus. Þá segir hún — ég man orð hennar að mestu enn: »Þegar þú kemur heim, þá verða Benedictsens-hjónin að spila þar við Johnsen og konu hans. Þú sezt við þitt borð úti við gluggann og tekur bækurnar þínar. En svo þegar Benedictsen einhverntíma »situr yfir« (það spilaði l'ombre), þá hvíslar hann að þér spurningu, sem ég vil vona að þú svarir játandi. — Hönd þína upp á það!«

Hann hikaði við að gefa loforðið, og sagði hún honum þá, að þeir hefðu verið þar í stofunni um daginn Benedictsen, Johnsen, prófastur og maðurinn sinn. Hafi þá Matthías borist í tal og prófastur sagt eitthvað í þá átt, að litlu fjölskrúðugri hefði hann komið aftur úr siglingunni. Hún tók þá í strenginn og mótmælti þessu, kallaði piltinum hafa farið mikið fram á þessum eina vetri, en sagði seinna, að ef þeim þætti hann ekki efnilegur verzlunarmaður, þá gætu þeir styrkt hann til þess að komast í lærða skólann; taldi hún það ekkert stórræði fyrir þá alla. Benedictsen tók strax undir þetta. »Hvað segir þú, Kúld?« sagði hann. »Hvað segir þú sjálfur, og þið hinir?« svaraði Kúld. »Þú, prófastur!« sagði Benedictsen aftur. En prófasturinn vatt sér út úr talinu og gekk burt. Benedictsen kvaðst þá skyldi kosta piltinn þegar suður kæmi, ef séra

Eiríkur Kúld vildi kenna honum undir skóla. »Þessu lofaði maðurinn minn,« sagði frú Kúld, »og ætlarðu nú ekki að segja já?« Matthías hét því og gekk litlu síðar heim. Fór þar alt eins og hún hafði sagt fyrir og var nú ákveðið, að hann skyldi fara í skóla. Tvo næstu vetur var hann svo við nám hjá séra Eiríki Kúld, en við verzlun og sjómensku á sumrum. Haustið 1859 fór hann í skóla. Gerði Brynj. Benedictsen hann vel úr garði, en skrifaði Jóni Sigurðssyni forseta með honum og bað hann að koma honum fyrir í Reykjavík, því Jón var þar þá um tíma eftir þing. »Inn í skólann kemstu,« sagði Brynjúlfur við Matthías um leið og hann kvaddi hann, en hallaði sér að eyranu á honum um leið og bætti við: »því þú kant meira í latínu en prófasturinn okkar!«

Nú settist Matthías á skólabekk í lærða skólanum, 24 ára gamall. Lét hann reyna sig til 3. bekkjar A og tókst inntökuprófið vel; »kunni ég og sumt,« segir hann, »fult eins vel þá eins og eftir fjögra ára nám í skólanum, svo sem dönsku, ensku, þýsku og stærðfræði.« Hann var fjóra vetur í skólanum og útskrifaðþaðan sumarið 1863. Tvo fyrri veturna var hann lasinn og kennir um ofmiklu lestrarkappi og kyrsetum undanfarna vetur. Mest segist hann

hafa numið skólalærdóminn í upplestrarfríunum á vorin.

Þeir voru sjö í bekk og lifa nú ekki af þeim nema tveir, sr. Matthías og Hallgrímur biskup. Segir sr. Matthías, að sambúð þeirra bekkjarsveinanna hafi verið hin bezta, en af öðrum skólabræðrum sínum hafi hann mest umgengist þessa: Gunnar Gunnarsson, Eggert Ó. Briem, Pál Sigurðsson og Lárus Benediktsson, er allir urðu síðar prestar, og Skafta Jósefsson, er síðar varð ritstjóri.

Bjarni Jónsson var þá skólameistari. Hafa dómar manna um skólastjórn hans verið misjafnir. Sr. Matthías lýsir honum svo: »Þótti okkur hann æði-stórfeldur og vanstiltur, en sem »skólamaður« var hann höfuðskörungur; og svo þótti mér hann skemtilegur í kenslustundunum, að mér þótti sem bekkurinn yrði allur annar þegar hann kom inn, og var sem nýrri birtu brigði þá fyrir.«

---

Ekki er mér kunnugt um, hvenær Matthías byrjaði að yrkja; en víst hefir það verið snemma. Við fyrsta kaflann í ljóðasafni hans er ártalið 1850—65. Elstu kvæði sín, sem prentuð eru, hefir hann þá ort 15 ára gamall. Mjög fá

þeirra munu þó vera svo gömul, og flest af þeim eru ekki ort fyr en á skólaárum hans.

En án efa hefir það verið trúin á skáldgáfu Matthíasar sem réð því, að frú Þuríður Kúld hvatti svo mjög til þess, að hann yrði settur til menta. Hún hafði haft miklar mætur á skáldskap og verið vel heima í honum, enda var hún alin upp á bókmentaheimili. Hún var dóttir Sveinbjarnar Egilssonar, en dótturdóttir Benedikts Gröndals eldra og systir Benedikts Gröndals yngra, sem er níu árum eldri en Matthías og var orðinn þekt skáld áður en Matthías kom í skóla.

Á uppvaxtarárum Matthíasar er ný stefna að ryðja sér til rúms í bókmentum og skáldskap hér á landi. Fjölnismennirnir hafa brotið ísinn og yngri kynslóðin fylgir skoðunum þeirra. Þeir Bjarni, Jónas og Sveinbjörn Egilsson falla í valinn, en yngri skáld og rithöfundar eru að koma fram, sem halda áfram í sömu áttina, svo sem Jón Thóroddsen, Benedikt Gröndal, Gísli Brynjúlfsson o. fl.

Í fyrirlestri, sem sr. Matthías hélt síðastliðinn vetur á Akureyri, til ágóða fyrir minnisvarðasjóð Jónasar Hallgrímssonar, lýsir hann því, hve mikil áhrif kvæði Jónasar hafi haft á sig í æsku. Þau komu ekki út í einni heild fyr en nokkrum árum eftir dauða höfundarins.

Matthías var þá smalapiltur á Kvennabrekku. Segist hann ekki hafa skilið bókina við sig fyr en hann hafði lesið hana spjaldanna á milli og lært margt af kvæðunum utan að frá upphafi til enda.

Án efa hefir hann einnig lesið eitthvað af útlendum skáldritum áður hann kom í skóla, þar sem hann var þá orðinn vel heima í þremur útlendum tungumálum, dönsku, þýzku og ensku.

Á öðrum vetri eftir að hann kom í skóla, þ. e. veturinn 1860—61, samdi hann »Útilegumennina«. Leikurinn var fyrst sýndur í febrúar 1862, í »Gildaskálanum«, en svo var þá kallað húsið, sem Frelsisherinn nú á og heldur í samkomur sínar. Segir frá því í »Þjóðólfi« 28. febr. það ár, og er látið vel yfir leiknum. Sigurður Guðmundsson málari hafði málað leiktjöldin, og þótti einnig mikið til þeirra koma. Var leikurinn þá sýndur fjórum sinnum. Eitt kvöldið var leikið til ágóða fyrir höfundinn og annað fyrir Sigurð Guðmundsson málara. En ekki kom leikurinn á prent fyr en tveimur árum seinna, 1864. Þetta er fyrsta bókin, sem út kemur eftir séra Matthías, og samdi hann hana 25 ára gamall, í hjáverkum frá námi sínu. Síðan hefir hann breytt leiknum dálítið, aukið við hann og bætt hann.

»Útilegumönnunum«, eða »Skuggasveinn« — því það nafn er orðið miklu almennara — var mjög vel tekið, enda átti leikurinn það skilið. Smáleikir Sigurðar Pétursson voru hið eina er þá var til í bókmentum okkar af þeirri skáldskapartegund, en »Skuggasveinn« tók þeim að öllu leyti langt fram.

Það var lítið um sjónleiki hér á þeim árum, og þeir leikir, sem valdir voru til sýnis, voru þýddir smáleikir, léttir viðfangs. Og svo hefir verið hér alt fram til síðustu ára. Leiklistin var, eins og nærri má geta, á mjög lágu stigi.

Það er vel skiljanlegt, að leik eins og »Skuggasveini« væri þá vel tekið. Efnið er ramíslenzkt, tekið úr þjóðtrúnni, athöfnin fjörug, samtölin víða fyndin og inn í leikinn er fléttað ágætum söngljóðum með fögrum lögum.

Þá var söngleikjaöld og þjóðsagnaöld, og bæði í efnisvali og byggingu leiksins fylgir höfundurinn tíðarandanum. En það er iðandi æskufjör í leiknum. Hið bezta í honum er þó kvæðin, enda má telja þau með fallegustu söngljóðum íslenzkum, og urðu þau brátt á allra vörum. Ekkert íslenzkt leikrit hefir verið eins oft leikið og »Skuggasveinn«. Þeir leikir sem höfundurinn hefir síðar samið hafa sjaldan verið sýndir, sumir aldrei, og eru

þeir þó efnismeiri sumir. þetta æskuverk er hið eina af leikritum hans, sem náð hefir almennings hylli.

Sumarið 1860 ferðaðist Matthías um Ísland með kvekurunum Isaak Sharpe og A. Kloster. Er ekki ólíklegt, að ýmsar hugmyndir, sem fram koma í »Útilegumönnunum«, stafi frá því ferðalagi. Fyrir þessa för og svo fyrir »Útilegumennina« kveðst hann hafa fengið eigi lítið fé, og gat því kostað nám sitt sjálfur.

Þegar hann kom vestur í átthagana sumarið eftir, fékk hann hinar beztu viðtökur hjá vinum sínum og kunningjum, einkum Brynjúlfi fóstra sínum. Lætur hann vel af högum sínum næstu ár. Hann var oft á ferðalögum á sumrum og segir sig aldrei hafa »skort skotsilfur á þeim ferðum.«

Um þetta leyti kvæntist hann Elínu Knudsen, dóttur Diðriks Knudsens, timbursmiðs í Reykjavík, og varð það með fleiru til þess, að ekkert varð úr því, að hann sigldi til háskólans. Hann fór á prestaskólann og útskrifaðist þaðan eftir tveggja ára nám 1865, rétt þrítugur að aldri.

Síðara árið sem hann var á prestaskólanum þýddi hann Friðþjófssögu á íslenzku og kom hún út árið eftir, 1866. Varð sú bók mjög vinsæl, enda er þýðingin ágæt. Séra Matthías hefir í síðari útgáfu breytt henni, og víða til bóta, en þó ekki alstaðar, að því er mér virðist.

Ætlun hans mun þó hafa verið að sigla til háskólans. »Voru í mér mörg veðrin um þær mundir« segir hann, »en það varð úr, að ég varð klerkur.«

Hann vígðist 1866 til Kjalarnessprestakalls og fór þá að búa í Móum.

Árið 1868 misti hann konu sína; hún dó úr taugaveiki á annan dag jóla. Sjálfur lá hann þá hættulega sjúkur af sömu veiki og kveðst lengi síðan hafa borið menjar þess sjúkdóms.

Árið 1870 giftist hann í annað sinn, Ingveldi Ólafsdóttur Jóhnsen, dóttur Ólafs prófasts á Stað, fyrrum sóknarprests síns, sem áður er um getið. Var brúðkaup þeirra haldið á Stað í júlí 1870 með mikilli rausn og viðhöfn. Þessi ráðahagur var heitasta ósk foreldra Matthíasar og eins Brynjúlfs fóstra hans.

Því segir sr. Matthías að sér hafi þótt kynlegt, að þessa dagana hafi faðir sinn verið mjög dapur í bragði. Hann hafði sagt Matthíasi það, áður en hann kvæntist í fyrra sinn, en eftir að það var fullráðið, að Ingveldur yrði samt kona hans einhvern tíma. Nú hafði eitthvað borið fyrir gamla manninn á ný og þóttist hann af því geta ráðið, að sambúð þeirra Ingveldar yrði ekki langvinn. Ekki sagði hann samt Matthíasi þetta þá, enda kveðst hann hafa

Nú gengur að stund með gull í mund
og glæsileg mentavöld:
á burt með hrygð, þú brosandi bygð,
og blessun á komandi öld!

Á Akureyri hefir séra Matthías haft betri tíma til ritstarfa en í Odda. Þar var hann í tvö ár ritstjóri blaðsins »Lýðs«, 1889—90. »Lýður« er að efni líkur því sem «Þjóðólfur« var: flytur kveðskap og fræðandi efni, en leiðir landsmálaþjark sem mest hjá sér. Á Akureyri eru »Grettisljóð« kveðin og ritaðir leikirnir »Jón Arason«, »Helgi magri« og »Aldamót«. Var »Helgi magri« leikinn á hátíðarsamkomu til minningar um þúsund ára bygging Eyjafjarðar og er saminn til þess að sýnast þar, en »Aldamót« eru skrifuð síðustu daga 19. aldarinnar og leikin á aldamótahátíð Akureyrabúa. »Jón Arason» hefir, að því er ég til veit, ekki enn verið sýndur á leiksviði. Eitthvað mun vera til af smærri leikjum eftir séra Matthías frá þessum árum, en ekki eru þeir prentaðir. Af þýðingum hefir komið út eftir hann á síðustu árum »Gísli Súrsson«, leikur eftir enska konu, Miss Barmby, og »Sögur herlæknisins« eftir Z. Topelius; er komið út af þeim fyrsta bindi, annað á að koma út í haust og hið þriðja er fullbúið til prentunar.

En merkasta verkið er þó Ljóðasafn hans,

sem David Østlund bóksali er nú að gefa út; hefir komið út af því eitt bindi á ári, og er fjórða bindið nú nýkomið út. Þau eiga alls að verða fimm, og mun hið fimta og síðasta koma út að sumri. Er það óvenjulega stórt og fjölskrúðugt ljóðasafn. Þar er safnað saman öllum ljóðmælum séra Matthíasar, frumsömdum og þýddum, sem ekki mynda stærri heildir, er áður hafa út komið í sérstökum bókum. T. d. eru þar ekki teknir upp »Grettisljóð«, ekki »Friðþjófs saga« Tegners, »Brandur« Ibsens né »Manfred« Byrons.

Við og við hefir séra Matthías brugðið sér til útlanda eftir þær ferðir sem áður eru taldar. Meðan hann gaf út »Þjóðólf«, 1876, ferðaðist hann í þriðja sinn til Englands, en í fjórða sinn 1885, og dvaldi hann þá einnig um tíma í Kaupmannahöfn. 1893 ferðaðist hann um Norður-Ameríku; var hann kosinn til þess að mæta fyrir Íslands hönd á fræðimannafundi í heimssýningunni, sem haldin var það ár í Chicagó. Í þeirri för kom hann í margar af bygðum Íslendingu fyrir vestan haf. Á Akureyri kom síðan út bók eftir hann, sem lýsir þessari ferð, »Chicagóför mín«.

Síðan hefir hann þrisvar farið utan, til Danmerkur, Noregs og Englands. Síðastliðinn

vetur dvaldi hann í Kaupmannahöfn og voru þar þá með honum börn hans fimm, Steingrímur læknir sonur hans og fjórar dætur. Síðasta bók hans er skrifuð þar og á að koma út í haust; hún heitir »Frá Danmörku«, en ógerla veit ég um efni hennar.

---

Hér hefir þá stuttlega verið litið yfir sjötíu ára æfiferil séra Mattíasar.

Við hittum hann fyrst barn á fátæku fjölskylduheimili. Hann stendur þar að engu betur að vígi en fátæk bændabörn alment. En hvað er það sem hefir borið hann fram, langt útfyrir og uppyfir fjöldann? Eru það eingöngu meðfæddir yfirburðir? Eða eru það atvikin meðfram — lánið? Í orðsins venjulegu merkingu hefir hann ekki nema að sumu leyti verið lánsmaður. Hann hefir mætt þungu mótlæti og oft átt við erfið æfikjör að búa. En hann hefir líka í fullum mæli hlotið viðurkenningu þjóðar sinnar.

Og nú, þegar við sendum honum heillaóskir á sjötíu ára afmæli hans, lítum við til hans sem eins hins helzta og bezta af andans mönnum hennar.

Ég hef dálítið kynst séra Matthíasi, bæði komið til hans á Akureyri, hitt hann á ferða-

lagi og skifst á við hann bréfum. En ég lýsi honum hvorki í sjón né viðkynningu, af því að það er verkefni þess manns sem hér næst á eftir tekur til máls.

*Þorst. Gíslason.*



# SÉRA MATTHIAS JOCHUMSSON
## HEIMA Á AKUREYRI.

---

OFT er það sagt, að góð skáld séu ódauðleg. Öldum saman lifi ljóð þeirra og hljómi í hjörtum manna, þó bautasteinarnir á leiðum þeirra verði máðir og snjáðir eða mosinn hjúpi þá grænni eða flikróttri blæju.

Oftast er þó »ódauðleikinn» skammur. Fæst skáld lifa miklu lengur en æfin endist. Aðeins örfáum útvöldum auðnast að snerta hina viðkvæmu, huldu strengi, sem óma eins og klukka eilífðarinnar yfir ys og þys aldanna. Jafnvel þessum örfáu útvöldu er aðeins leyft að skygnast inn í helgidóminn fáein augnablik æfinnar.

Séra Matthias er einn af hinum útvöldu. Hið fegursta og bezta í ljóðum hans ber aðalsmerkið, sem aldrei sézt á hversdagsskáldskap. Í því mun hann lifa kynslóð eftir kynslóð.

En þó skáldið lifi, hverfur að mestu *maðurinn*, sem ljóðin orkti, með öllu hans ytra gerfi. Eftir nokkra áratugi hefir þjóð vor ofið

eftirmælin í fáránalegu gliti þjóðsagnanna, og þá verður það stolt þeirra, sem nú eru ungir, að hafa þekt gamla manninn og kunna frá honum að segja. — —

Sumir eru stálminnugir á orð og atvik hversdagslífsins. Þeir geta nákvæmlega sagt frá mönnunum, sem þeir kyntust, hvað þeir sögðu og hvernig þeir lifðu. Ég er það ekki. Þegar ég lít yfir 10 ára náin kynni af hinu aldraða þjóðskáldi voru, þá man ég að vísu fátt, en ógleymanleg stendur hún þó fyrir mér myndin af þessum eina þjóðkunna sambæjarmanni mínum. Og hvað hann hefir verið mér þessi ár, finn ég nú bezt, þá er hann hefir dvalið erlendis all-langan tíma. Hvort sem ég sit heima hjá mér eða geng eftir götum bœjarins, þá sakna ég hans og hlakka til að sjá hann aftur.

Ætíð hefi ég orðið var við þessa tilfinningu þegar gamla skáldið er fjarverandi, en ég minnist þess varla, að hafa veitt því verulega eftirtekt með aðra sambæjarmenn mína. Mér finst bærinn vera orðinn svo undarlega tómur og kuldalegur.

Það er heldur ekki furða, þó tómlegra sé, þegar sæti hans er autt, því hann fyllir bókstaflega tveggja manna pláss, að minsta kosti þeirra, sem grannvaxnir eru og fyrirferðarlitlir, og þegar til hans sézt á götunni, þá

er það ekkert smáræðis stryk sem í reikninginn kemur, heldur fyrirferðarmikill flötur, sem augað hvílist við að horfa á.

Þegar þeir koma seint heim á kvöldin ungu piltarnir, sem stúlkunum lízt bezt á, verður þeim sjálfsagt sumum að raula ásjálfrátt vísuna:

»Kominn er ég seint um síð
svásum heim frá drósum.
Lítið heyrist til þín tíð,
er tifar þú á rósum!«

Hafi þeir ekki séð séra Matthías, dettur þeim sjálfsagt í hug, að höfundur þessarar lipru vísu sé nokkurskonar óhaltur Byron, hávaxinn, grannur og skrautbúinn glæsimaður, — en þeim skjátlast. Höfundurinn er sterklegur, samanrekinn, fyrirferðarmikill og ekkert barnaglingur.

Hann hefir eflaust verið sterkur og karlmenni, enda hafa hetjur og afreksmenn ætíð verið hans uppáhald eins og Grettir og Grettis líkar. Þess vegna fellur honum og ágætlega við Carlyle Bretatröll. Ég er viss um, að þegar Ari hinn vestfirzki réri með séra Matthíasi á selaveiðar forðum daga, þá hefir hann haft duglegan liðsmann bæði við skáldskapinn og seladrápið.

En lítið myndi hann stoða karlmenskan og fyrirferðin til þess að laða hugi annara að sér, ef ekki fylgdi fleira með.

Það sem maður fyrst rekur augun í hjá séra Matthíasi, næst vexti og ytra útliti, er glaðlega, vingjarnlega viðmótið, hvar sem hann hittist. Það eru engir kaldir, grannir fingurgómar, sem rétt er tylt í hendi manns, þegar hann heilsar, heldur er það heill, hlýr og mjúkur hrammur, sem grípur um hendina og skekur hana vingjarnlega og innilega. Hlýju hendinni fylgir ætíð gleðilegt, vermandi bros og nokkur vingjarnleg orð, sem geta verið mikils virði, þegar skapið er í ólagi. Ekki sjaldan er ávarpið: »Blessaður, elskan mín! Hm —«.

Það leggur oftast af séra Matthíasi einhvern yl, sem gerir stofuna hlýrri meðan hann stendur við, og skapið léttara löngu eftir að hann er farinn burtu. Þetta er eðlileg afleiðing af því, að hann er nærfelt ætíð í góðu skapi, framúrskarandi bjartsýnn, ramtrúaður á sigur góðra málefna og mannúðin sjálf í dómum sínum um aðra. Það er sannfæring hans sjálfs sem talar út úr erindunum:

— »Og *glaðar* sálir (ɔ: skulu) sjá þar *englavængi*,
er sólu skýla ský, og heyra í lofti:
Hallelúja! — Því hvað er mannsins mein?

Hverfandi ský á hveli fleygu stunda!
Hann er á heimleið, Guð á allar götur.
Leiðin er löng, en heim kemst hver um síðir!«

Fyr má nú vera bjartsýni en svo, að sorgarskýin séu gerð að voldugum englavængjum, sem bera í svip fyrir sólina, í heimi, sem ómar af lofsöngvum yfir dýrðinni Drottins! Þó er þetta, ef til vill, hin eina lífsskoðun sem að nokkru er nýt.

Viðræður séra Matthíasar eru líkar því, sem hann ritar í óbundnu máli. Oftast er hann langorður, talar mikið og oft svo ósamanhangandi, að frágangssök er fyrir þá að fylgjast með, sem seinfærir eru í hugsunum. Þeir leggja því ekki sjaldan þann dóm á málið, að annaðhvort hafi enginn botn verið í öllu saman, eða þeir hafi að minsta kosti ekki fundið hann. Slíkir dómar eru ekki allskostar láandi, en fyllilega eru þeir þó ekki réttir. Jafnvel í daglegu viðræðunum ríður séra Matthías allajafna á Pegasus sínum, og hann ber svo fljótt yfir og fer í loftinu svo langa spretti, að þeir, sem eru á hægfara klárum, missa sjónar af öllu ferðalaginu.

Mér er t. d. minnisstætt, að séra Matthías kom eitt sinn til mín með bók, heimspekilegs efnis, sem hann hafði þá nýlega lesið. Hann

lánaði mér bókina, en hélt auk þess nokkurskonar fyrirlestur fyrir mér um innihaldið. En þrátt fyrir það, að ég fylgist oftast nær vel með í því, sem hann segir, þá var mér það allsendis ókleift í þetta sinn, og hugsaði ég með mér, að annaðhvort væri bókin endaleysa, eða séra Matthías hefði ekki í henni botnað. Þegar ég las síðan bókina, hafði hann strykað við alt efni meginmálsins svo keiprétt og vandvirknislega, að slíkt gat enginn hafa gert, sem ekki skildi hana fyllilega og kunni vel að meta alla framsetning efnisins.

Þetta samhengisleysi, sem víða ber á í ræðum og ritgerðum séra Matthíasar, orsakast mestmegnis af því, að hann er skáld frá hvirfli til ilja. Hugmyndaflugið teymir hann áfram viðstöðulaust, og orðgnóttin er svo mikil, að tíu lýsingarorð standa þar til boða, sem komast má af með eitt. Það er eins og hann þurfi að hafa á sér hina þungu tauma íslenzks ríms til þess að fylgjast megi með honum og til þess, að hann komist ekki, áður en hann veit af, miklu lengra en hann ætlaði sér að fara. Hann er ennþá, þrátt fyrir langa æfi, eins og fjörugur gæðingur, sem þýtur út í loftið, ef hann heyrir hófadyninn álengdar.

Oft hef ég heyrt séra Matthíasi brugðið um hringlandahátt, að skoðanir hans á flestum

málum séu mjög á reiki, og að hann aðhyllist eitt í dag en annað á morgun. Víst er um það, að hann gefur eigi sjaldan nokkra átyllu til slíkra dóma. Stundum hefir hann t. d. sagt mér frá bók eða ritgerð, sem ræðst með hnúum og hnefum á kristindóm vorra tíma, og lofað hana á hvert reipi. Fám dögum síðar hefir hann lokið lofsorði á aðra ritgerð, sem heldur fram mótsettu máli.

Hringlandahátturinn er eigi að síður minni en marga grunar. Séra Matthías hefir mjög næmt eyra fyrir öllu því, sem nýtt er og vel er sagt og er fús á að dást að því og lofa það. Þó hann kunni að vera ósamdóma í fleiri atriðum eða færri, þá sleppir hann allajafna slíkum útásetningum og lofar og blessar höfundinn, sem segist vel og ver mál sitt með snild. Þetta hættir mönnum við að taka sem fullkomið samþykki, og þegar sama lofsorði er lokið á tvent andstætt, þykir það hringlandaháttur.

Væri slíkur áfellisdómur allskostar réttur, þá ætti séra Matthías að vera flestum mönnum hringlandalegri í trúarmálum. Stundum hefir hann þótt í ræðu og riti fylla flokk andstæðinga kristinnar kirkju, en ort þess á milli suma af þeim rétttrúuðustu og hjartnæmustu sálmum, sem til eru á íslenzkri tungu. En nú vita þeir

það, sem þekkja séra Matthías, að fáir eru í raun og veru fastari fyrir í trúarskoðunum en hann. Trúarbrögð hans eru einföld og dogmulítil, en þau eru þrátt fyrir alt alls ekki á neinu reiki.

Séra Matthías er tilfinninganna barn. Það, sem honum þykir vel og drengilega sagt, lofar hann, og lætur hrífast af því, jafnt hjá mótstöðumönnum sem flokksmönnum sínum. Þetta kemur auðvitað í bága við þá reglu, að lofa alt hjá sínum flokki, en lasta alt hjá andstæðingunum, en henni fylgja nú margir á seinni tímum.

Það er einkum í trúmálum, að ég hefi veitt því eftirtekt, hve lítið er að marka, hvað séra Matthías lætur fjúka í svipinn, og hvernig hann í raun og veru er fastari fyrir, en flestir halda. Það var þannig fyrir nokkrum árum, að hann las ýmsar bækur um Buddatrú og lofaði hana á hvert reipi. Við áttum þá oft tal um málið, en sérstaklega var það eitt kvöld, að ég sat lengi hjá gamla manninum, og tókst að verja málstað Búddatrúar svo röggsamlega, að hann, sem í það sinn tók málstað kristninnar, hrökk tæplega við. Þegar ég gekk í burtu, hélt ég hálfvegis, að nú væri hann í svipinn sannfærður Búddatrúarmaður, og eflaust hefir hann heldur ekki í það sinn fundið,

hversu ástæðum mínum yrði hrundið. En hvernig fór? — Þegar ég var genginn burtu, settist hann niður í þungum þönkum og yrkir eitt af sínum fegurstu og trúuðustu kvæðum:

«Guð minn, guð, ég hrópa
gegnum myrkrið svarta o. s. frv.[1]

Kvæði þetta er erfitt að skilja nema tildrög þess séu kunn.

Það er í fleiru en trú, sem séra Matthías er fastari í rásinni, en sumir ætla. Ekki hefi ég vitað verulegt hik á honum við neina kosningu hér í bænum. Einn af bæjarbúum hér, sem oft hafði lánað honum smáupphæðir, sagði mér, að aldrei hefði það brugðist, að hann hefði gert beztu skil. En það ber oft lítið á hans sjálfstæðu skoðunum, því hann finnur ætíð eitthvað gott í skoðun annara og er fús á að lofa það, hver sem hún er. Það getur meira að segja verið erfitt að fá hann til að segja álit sjálfs sín.

Fremur mun það álit manna, að séra Matthías sé lítill ráðdeildarmaður, hvorki ötull né útsjónarsamur í daglegri baráttu fyrir lífinu.

---

1) Sjá Ljóðmæli eftir Matth. Jochumsson, I. bindi, bls. 154.

Eflaust styðst þetta álit við það, að auðmaður hefir hann aldrei verið. Ég held, að slíkt álit sé á litlum rökum bygt. Hann hefir lengst af haft fyrir mörgum að sjá, og lítil líkindi hafa verið fyrir því, að honum safnaðist fé. En ötull er hann enn þann dag í dag, hvort heldur sem hann snýr sér að því að sjá um bú sitt, eða sezt við skriftir og ljóðasmíð, og það jafnvel svo, að það eru færri, sem þyrftu að ætla sér að jafnast á við hann í því, er til kapps og afkasta kemur. Eins mun hann hafa verið meðan hann fékst við sveitabúskap á stórri jörð. Ég þykist vita, að hann hafi verið dugnaðarmaður og afkastamaður, hvenær sem hann sneri sér að búsýslunni, og að útsjónin hafi verið í góðu meðallagi. Eflaust hefir það og lengst af spilt fjárhag hans, að hann er maður brjóstgóður og örlátur, sem ekki má aumt sjá.

Síðan séra Matthías hætti að gegna embættisstörfum, má heita, að tími hans hafi skifzt í þrent: lestur, ritstörf og að spjalla við kunningjana utanlands eða innan. Aldrei heldur hann kyrru fyrir iðjulaus, alt af er hugur hans eyrðarlaust sístarfandi. Fjöldi manna sendir honum rit sín í heiðurs- og velvildar-skyni og auk þess les hann fjölda annara blaða, bóka og tímarita, sem hann nær til. Oftast fylgir

hann með áhuga hugsun og framsetning höfundarins, lifir sig inn í hana, lætur hrífast af því, sem honum finst vel og drengilega sagt, en sleppir hinu, sem honum fellur miður. Þegar svo bókin eða ritgerðin er á enda, þá er það eigi sjaldan, að gamli maðurinn þrífur hatt sinn og göngustaf, stingur bókinni undir hendina og þrammar af stað til einhvers af kunningjunum, sem hann væntir að kunni að meta hana og skilja. Þegar séra Matthías birtist síðan skyndilega með bókina undir hendinni, þá þarf ekki að því að spyrja, að hann er hlaðinn af allskonar heilabrotum engu síður en japönsk sprengivél af sprengitundri, og alt þetta brýzt út í lengri eða skemri ræðu um bókina, höfund hennar og innihald. En eigi sá, sem við er talað, að verða miklu fróðari um efni og stefnu bókarinnar, þá er honum hentara að vera við hraðri ferð búinn yfir flest í jörð og á, og helzt um himnaríki og helvíti í þokkabót, því víða kemur gamli maðurinn við og þarf eftir mörgu að líta. Þeir, sem ekki fylgjast með í þessu stutta yfirliti yfir alt mögulegt, botna ekkert í öllu saman. Um hina má segja *sat sapienti!* (Þeim nóg sem skilur.)

Séra Matthíasi er ekki nóg að safna sér saman andlegum fjársjóðum og liggja síðan á þeim sem ormur á gulli. Hann er af náttúru

örlátur og er ekki í rónni, fyr en hann hefir miðlað öðrum nokkru. Hann vill fá aðra til að lesa það, sem honum þykir gott, tala um það við þá, skrifa um það blaðagreinar og yrkja um það kvæði. Einhvernveginn vill hann endilega ávaxta sitt pund. En sá galli eða kostur fylgir oft framsetningu séra Matthíasar, að hann víkur eigi sjaldan talsvert frá frásögn höfundanna. Ósjálfrátt og áður en varir blandast hans eigin skoðanir og tilfinningar saman við það, sem frá er sagt, svo það verður engu síður gamla skáldið, sem segir frá, heldur en hinn upprunalegi höfundur.

Eins og geta má nærri, þá eru það undrin öll, sem séra Matthías hefir lesið, og er tæpast von til, að hann hafi minni til að halda glöggvan reikning yfir það alt. Honum er og gjarnt að tilfæra heila súpu af rithöfundum, þegar hann ræðir eitthvert mál. Í íslenzkum fræðum er hann ágætlega heima. Hann er þaullesinn í gömlum íslenzkum sögum, kann utan að mikið af fornum skáldskap, og vel er hann að sér í íslenzku máli, eins og kunnugt er. Annars er heimspeki og ýms trúarvísindi hans uppáhalds-viðfangsefni. Sérstaklega hefir hann þaullesið rit vinar síns P. Carusar og rit þau, sem The Open Court Publishing Co. hefir gefið

út. Auk þessa mun hann oftast lesa þær bækur heimspekilegs efnis, sem hann nær í.

Ekki hef ég orðið þess var, að séra Matthías fylgi eindregið nokkurri ákveðinni heimspekisstefnu. Þrátt fyrir það, að P. Carus er hans uppáhald, þá fer því fjærri, að hann aðhyllist allar skoðanir hans. *Ég*-neitun Carusar og ramheimspekilega persónulausa guðshugmynd, trú hans á, að »vitið tómt og verkin, vitund horfið þreyi« — alt þetta á ekki við gamla manninn, sem hefir óbifanlega trú á persónulegum guði og áframhaldi og þroskun persónuleikans eftir dauðann. Hér skilur mikið á milli, og þó talar séra Matthías oft á þá leið, að ætla mætti, að hann féllist á allar kenningar Carusar vinar síns. Hann hefir mesta yndi af að lesa heilabrot viturra manna um þennan heim og annan, en þegar kenningarnar koma í bága við aðalatriðin í trú hans, þá skilja vegir. Hann er allra heimspekinga vinur, en engum trúr.

Fáir munu á eitt mál sáttir í því, hverri stefnu séra Matthias fylgi í landsmálum, og hefir hann þó ritað margar greinar um þau og jafnvel verið ritstjóri eins af vorum helztu blöðum. Hann hefir hjá ýmsum fengið orð fyrir það,að fylgja ekki alskostar þjóðlegri stefnu, heldur fylla flokk þeirra, sem í tíma og ótíma prédika það bróðerni milli Dana og Íslendinga,

sem aðallega er innifalið í því, að Danir séu alt, en Íslendingar ekkert. Landvarnarstefnuna hefir honum t. d. verið mjög lítið gefið um.

»Lýðir segja Landvörn
ljóta hafi sandkvörn« . .

Að svo miklu leyti, sem mér er kunnugt, fer því þó fjærri, að séra Matthías sé á nokkurn hátt óþjóðlega sinnaður. Sómi og sjálfstæði landsins er honum lifandi áhugamál, verndun þjóðernis vors og tungu, en honum er illa við alt Dana-hatur, allar getsakir og illkvitni í garð Dana. Honum hefir þótt Dana-hatrið gjöra vart við sig hjá ýmsum Landvarnarmönnum, og það er einkum þetta, sem hann misvirðir við Landvarnarstefnuna.

---

Fróðlegt væri það, að vera horfinn snöggvast niður til Hafnar og geta fylgst með gamla manninum, þegar hann gengur fyrir kong og flytur honum kvæði, en Kristján kong á hann ætíð erindi við, þegar hann bregður sér til Hafnar. Óvíst tel ég það, að hinn gamli konungur kunni að meta skáldskap séra Matthíasar, jafnvel þó þýddur sé á dönsku, en hitt er víst, að betra hirðskáld finst ekki í öllu ríki konungs,

og jafnvel þó víðar væri leitað, heldur en íslenzka þjóðskáldið. Þegar ég hugsa mér hin fornu hirðskáld vor, sem voru höfð í hávegum hjá hinum ágætustu höfðingjum, þágu af þeim hinar mestu virðingar og launuðu aftur með því að gjöra nöfn þeirra ódauðleg — þá dettur mér ætíð séra Matthías í hug. Hann gengur um á vorum dögum sem hreinasti anakronismus: sannarlegt hirðskáld af guðs náð, á tímum þegar konungarnir eru hættir að skilja skáldskap eða meta hann, að minsta kosti konungar Íslands. Hefði séra Matthías lifað á þeim tímum, þegar hreysti og skáldskapur luku upp öllum fjárhirzlum auðs og mannvirðinga og konungarnir höfðu vit á því að halda hirðskáld, þá hefði hagur hans orðið glæsilegri og æfin auðugri, en hún hefir orðið við guðsorðalestur yfir íslenzkri, trúardaufri alþýðu. Þá hefði hann setið á aðra hönd konungi, fylgst með, og það fremstur í flokki, í öllum svaðilförum og sigurvinningum og víðfrægt þær síðan í ógleymanlegum kvæðum. Og þetta líf myndi hafa átt við gamla manninn!

---

Innan skams er von á séra Matthíasi heim aftur. Ég þykist vita, að hann hafi yngst upp við ferðina, eins og hann er vanur, og leiki við hvern sinn fingur. Heima á skrifborðinu liggur heill bunki af enskum tímaritum, sem komið hafa meðan hann var burtu, og bíða þess að verða skorin upp og lesin. Hann hefir nóg að gjöra fyrstu dagana, og þegar hann hefir lesið nokkur hefti, býst ég við, að hann heimsæki mig, til þess að segja mér tíðindin. Dálítið kann ég líka að eiga í pokahorninu af nýjum hugleiðingum, sem ég hef grafið upp hingað og þangað.

Sælir eru þeir, sem hafa einhvern að tala við um sín áhugamál!

Lofaðar séu bækurnar, sem tengja saman hugsandi menn í fjarlægum heimsálfum!

---

— — Í haust verður séra Matthías sjötugur. Ég lærði utan að mörg af kvæðum hans og þýðingum, þegar ég var unglingur, og datt ekki í hug, að ég sæi hann nokkru sinni. Síðustu 10 árin höfum við verið nágrannar og fundist daglega. Ég á honum mikið að þakka, og svo á öll þjóðin. Heillaóskir allra Íslendinga vestan hafs og austan fylgja þjóðskáldi voru, þegar hann heldur sjötugasta

afmælisdaginn, og innilegt þakklæti fyrir alt hans mikla æfistarf, en ekki sízt þeirra, sem hafa átt því láni að fagna að kynnast þessum góða, glaðlynda, bjartsýna manni.

Akureyri í júní 1905.

*Guðm. Hannesson.*

---

MYNDIRNAR

í ritgjörð þessari eru af húsum séra Matthíasar á Akureyri.

*Fyrsta myndin* er af eldra húsi hans, í »Fjörunni«. Séra Matthías keypti það 1887 af Birni Jónssyni, ritstjóra »Norðanfara«, og bjó í því þar til 1903 um haustið, þá er hann flutti í nýtt hús, sem hann hafði látið byggja uppundan Torfunefi, milli Akureyrar og Oddeyrar. Af því húsi er *önnur myndin.* Er farið að kalla það hús »Sigurhæðir«. *Þriðja myndin* er af starfstofu skáldsins í þessu húsi.



# MATTHÍAS JOCHUMSSON
# Á SKÁLDFÁKNUM.

---

*„Undrist enginn*
*upp þó vaxi*
*kvistir kynlegir“ o. s. frv.*

SVO byrjar Bjarni Thorarensen eina af sínum einkennilegu og skörpu mannlýsingum. Og hann sækir skýringuna til jarðvegsins, sem kvisturinn sprettur upp úr. Eins og kvisturinn ber jarðveginum vott, eins ber maðurinn vott ætt sinni og uppeldishögum. En þó er langt frá því, að menn geti en rakið til hlýtar þær rætur sem liggja til þess að afbrigðin koma fram, t. d. stórhæfileikar í eina eða aðra átt.

Hve mikið má einstaklingurinn þakka eða kenna ættinni, hve mikið uppeldinu, hve mikið atvikunum, láni og lífsstríði, — stríðinu milli ástríða sinna og æfikjara, vona og reynzlu, virkileika og hugsjóna? — Þetta eru þau duldu rök sem liggja til þess sem fyrir er; það eru lífsþræðirnir sem nornirnar spinna,

svo fínir og flóknir, að stór vandi er úr þeim að greiða.

Hér skal því frá þessu horfið og litið á skáldskap séra Matthíasar eins og hann liggur fyrir okkur nú.

Mér dettur í hug byrjunin á einu af kvæðum hans. Hann ætlar að fara að lýsa einu af fegurstu héruðum landsins. Það liggur fyrir augum hans, vítt og breitt, með óteljandi mótsetningum. Ég á við kvæðið um Skagafjörð:

»Skín við sólu Skagafjörður
skrauti búinn, fagurgjörður.
Bragi, ljóðalaga-vörður,
ljá mér orku, snild og skjól!
Kenn mér andans óró stilla;
ótal sjónir ginna, villa,
dilla, blinda, töfra, trylla,
truflar augað máttug sól.
Hvar skal byrja? Hvar skal standa?
Hátt til fjalla? lágt til stranda?
Bragi leysir brátt úr vanda,
bendir mér á Tindastól!«

Braga skjátlast þar ekki. Séra Matthías þarf einmitt hæsta sjónarhólinn til þess að njóta sín bezt. En ef líta ætti yfir kveðskap séra Matthíasar frá efstu sjónarhæðunum, sem þar finnast, þá væri komið svo svimhátt upp í himingeiminn, að alt hið neðra hirfi í þoku.

Það væri líkt eins og að líta yfir landið af fjallstindi þegar sumarþokan fyllir firði og dali, en sólin skín í heiði fyrir ofan.

Ég kæri mig ekki heldur um svo ákveðinn sjónarhól.

En hvað er það sem grípur menn fyrst þegar þeir líta yfir stórt, áður óþekt hérað? Hugurinn festist ekki við neitt einstakt. Það er heildarsvipurinn, lögunin á þessu landflæmi, samræmið eða ósamræmið milli einstakra hluta þess. Augað svelgir myndina með stórum línum og dráttum. Við nákvæmari íhugun koma svo fram sérkennin á hverju fyrir sig. Það sést ekki hvort jökulvatn eða bergvatn er í ánni, þar sem hún blikar í fjarska, ekki hvort grænir hlíðageirar fjallanna eru nytsöm engjaflæmi, eða urð liggur undir gróðrinum, ekki hvort túnin eru grösug eða snögg, — þar sést aðeins liturinn. Og fegurstu blómin, sem litprýðina skapa, dæma svo búfræðingarnir jafnvel oft versta illgresi.

Einna fyrst verður mönnum að spyrja sjálfa sig: Hvar sá ég áður líkt landslag? Hvar eru fjallaraðir og daladrög eins, hvar stuðlabergslögin, hvar vatnarás? o. s. frv.

Við köllum yzta búning kvæðisins hátt, og táknum með því aðferð höfundarins við að mynda kvæðið, eða við köllum hann lag, og

llánum þá beint tákn hugmyndarinnar frá hinu sýnilega og áþreifanlega. Hátturinn eða lagið skapar hljómblæ kvæðisins eins og landslagið svip héraðsins. En um kjarngæðin gefur hvorki braglagið né landslagið neina vissu. Þó ályktum við svo, þegar við sjáum að landslag er líkt í tveim héruðum, að líkir kraftar og orsakir hafi ráðið myndun inni á báðum. Og séu engar sérlegar ástæður til hindrunar, þá ætlum við landkosti líka á báðum stöðunum.

Ef við lítum yfir kveðskap séra Matthíasar í heild frá þessu sjónarmiði, þá getur engum blandast hugur um, hvert honum svipar mest. Það er til fornkvæða okkar. Engu nútíðarskáldi lætur eins vel og honum að kveða undir fornum háttum, fornyrðalagi, dróttkvæðum háttum o. s. frv. Og ekkert nútímans skáld er eins innlífað máli og stíl fornkvæðanna. Það er eins og andinn, sem áður ruddi sér framrás í þessum rambundnu rímskorðum, sé endurvakinn í sumum drápum séra Matthíasar. Þaðan er hljómurinn í mörgum beztu kvæðum hans, þaðan krafturinn í málinu. Þegar andagift hans brýst fram í þessum þröngu rímskorðum, minnir það mig á fossaföll í þröngum gljúfrum; mér finst eins og hin fornu kjarnyrði lemjist um með æskugalsa, kastist eins og öldu-

föll milli stuðlanna í hinum gömlu rímgljúfrum sem grafin eru fyrir órófi vetra.

Séra Matthías trúir líka á mátt málsins eins og einhvern kyngikraft. Í áskorun sinn til Vestur-Íslendinga um að halda við málinu segir hann:

. . . »Það hefir voða-þungar tíðir
þjóðinni verið guðleg móðir;
hennar brjóst við þungri' og þorsta,
hjartaskjól, þegar burt var sólin;
hennar ljós í lágu hreysi,
langra kvelda jóla-eldur« o. s. frv.

Seinna í sama kvæði segir hann:

. . . »Héðinn söng meðan hyrjartungur
heljarváða stefin kváðu;
Þórir, Jökull og þaðan af fleiri
þuldu ljóð meðan öxin buldi.«

En hæst rís þó straumur mælskunnar í þessu kvæði þegar kemur að trúarskáldinu mikla á neyðaröld þjóðarinnar. Þá segir höfundurinn:

. . »Hallgrímur kvað í heljarnauðum
heilaga glóð í freðnar þjóðir.«

Aðrar eins hendingar og þessar eru »magnaðar signing«, eins og skáldið kemst að orði síðar í kvæðinu. Ég set hér enn nokkrar hendingar úr því:

. . . »Tungan geymir í tímans straumi
trú og vonir landsins sona,
dauðastunur og dýpstu raunir,
Darraðarljóð frá elztu þjóðum;
heiftareym og ástarbríma,
örlagahljóm og refsidóma« o. s. frv.

Loks tekur hann sólina til vitnis, er hann skilar af sér því »dýra þingi« er honum var fengið til varðveislu, en

»það er harpan herpt og orpin
Hekluglóð og jökulflóði.«

En gönuskeið hleypur skáldfákur hans oft á þessum fjörsprettum, þó fallega dynji í grundinni undir hófum hans.

---

Lýsingar séra Matthíasar eru allar gerðar með stórum dráttum. Í náttúrulýsingar hans vantar alt hið smágerða; hann þarf að hafa víða útsjón og dregur þá aðeins höfuðlínurnar. Þar minnir hann enn á fornskáldin, edduhöfundana. Þetta erindi er líkast því sem það væri úr Sæmundareddu:

»Runninn var röðull,
rendir gulli

fránir jökla
fagurhjálmar,
en til axla
úrig vóðu
sólarfjöll
silfurþoku.«

Flestar eða allar náttúrulýsingar hans eru líkar þessari að því, að hann þarf að koma öllum sjóndeildarhringnum fyrir í einu erindi. Svo gerir hann jafnvel líka í þessari fallegu sveitalýsing:

»Kveður lítil lóa
og leiti gyllir sól,
í hlíðum smalar hóa
og hjarðir renna á ból.«

Í »Minni Ingólfs«, einu af þjóðhátíðarkvæðunum, er mjög falleg náttúrulýsing, en með þessu einkenni Matthíasar, að hvert erindi breiðir sig yfir sjóndeildarhringinn eins langt og augað eygir í allar áttir:

»Himinfjöll
földuð mjöll
fránu gulli brunnu,
fram til sjár
silungs ár
sungu meðan runnu,
blóm á grund
glöð í lund

gull og silki spunnu,
meðan fuglar kváðu alt sem kunnu.«

Þegar hann í »Leiðslu« hefir náð »hæsta tindinum« og lítur niður fyrir sig yfir foldina, segir hann:

»Eins og heilög guðs ritning lá hauður og sær,
alt var himnesku gull-letri skráð.«

Trúarinnar skáld lítur á náttúruna eins opinberun. Bak við alt hið sýnilega eru huldir heimar; hvert fell er musteri vætta og anda, hver hóll og steinn álfabýli.

»Þú segir: jökull er jökull,
en ég segi: musteri drottins,«

segir séra Matthías á einum stað.

Í kvæðinu um Skagafjörð verður náttúrulýsingin ekki aðalefnið, heldur sagan. Hann lítur yfir höfuðbólin og rekur svo sögu héraðsins. En það er ekki fornöldin ein, sem hann festir hugann við, eins og mörg af skáldum okkar hafa gert; hann lítur yfir aldirnar alt fram til okkar daga, en stiklar tindana í sögunni eins og í geimnum og leggur undir sig margar aldir í hverju skrefi.

Leiði dáinna stórmenna eru hæstu sjónar-

hólar sögunnar. Þess vegna lætur séra Matthíasi svo vel að kveða á kumblum þeirra. Þaðan er útsjónin víð yfir aldaraðirnar til beggja handa. Á þessum stöðum hefir séra Matthías kveðið ýms af beztu kvæðum sínum.

Gestur Pálsson segir, að það sé einkennilegt, að Matthías kveði ekki um stórmenni sögunnar þegar þau séu í broddi lífsins og meðan barátta þeirra stendur yfir, heldur á grafarbakkanum. Hann yrkir um Snorra Sturluson nóttina sem hann er veginn, um Jón Arason á höggstokknum, Guðbrand biskup á banasænginni, Hallgrím Pétursson eins, og um Eggert Ólafsson þegar hann er að farast á Breiðafirði. Það er satt, að þetta er einkennilegt. En það er Matthíasi eðlilegast. Það er Bragi sem bent hefir honum á, hvaðan *hann* skyldi líta yfir æfi þessara manna, og mér finst hann hafa engu síður valið þar rétt heldur en þegar hann bendir honum á Tindastól, til þess að lýsa þaðan Skagafirðinum. Að lýsa þessum mönnum í baráttu þeirra fyrir áhugamálum sínum, með rökleiðslum fyrir réttmæti athafna þeirra, það er ekki verkefni handa séra Matthíasi. Hann verður að yrkja um þá á einhverri ákveðinni stórri stund, og æfistarf þeirra sér hann og skilur bezt, ef hann má

líta á það eins og hlekk í keðju, sem tengir saman heilar aldaraðir.

---

Séra Matthías er mestur andagiftarmaður og mestur mælskumaður allra íslenzkra skálda. Hugmyndaflug hans er taumlaust. Það á bezt við hann að þjóta í huganum yfir aldir og álfur í einni sjónhending. Hann getur vandað sig á sprettinum, en aldrei til lengdar í einu, sjaldan heilt kvæði til enda. Það eru tilþrifin til og frá innan um kvæði hans sem vekja aðdáun.

Það er gömul hugmynd, að skáldin ríði vængjuðum hestum loft og lög. En hvernig er þá skáldfákur séra Matthíasar? Það er bráðólmur fjörhestur, grimmvakur, en lítt taminn, fnæsandi af kappi og með flaxandi makka, sjálfsagður til að taka fyrstu verðlaun í hverri kappreið, ef hægt væri að halda honum niðri á skeiðinu.

Séra Matthías hefir reynt þennan gamm sinn á margskonar vegum. En hvar rennur hann bezt?

Ekki á almannavegum niðri í dölunum. Þar rennur hann reyndar vel, en ekkert tiltakanlega. Betur koma fram kostir hans á grýttum fjall-

vegum. En bezt nýtur hann sín þegar hann spyrnir fótum við fjallatindunum, tekur til vængjanna og þýtur loftvegina. Himinvangurinn er sá skeiðvöllur sem honum lætur bezt að renna.

Það er áður sýnt, hvernig séra Matthías þarf að fleygjast yfir rúm og tíma til þess að njóta sín bezt. Myndir hans eru dregnar með stórum dráttum, og til þess að yrkja vel þarf hann stórfengileg viðfangsefni. Megingátur mannlífsins eru umhugsunarefni hans og áhugamál. Hann vill ráða »rúnir lífs og lýða.«

Sjóndeildarhringir mannanna eru mjög misvíðir. Eins takmarkast af sveitinni hans, annars af héraðinu, þriðja af landinu, sem hann starfar fyrir. Alt geta þetta verið nýtir menn, og ef hamingjan er með, geta þeir náð takmarki sínu, séð vonir sínar og óskir að meira eða minna leyti rætast. Auðvitað ná því ekki allir, einn fellur á þessum orustuvelli þegar annar sigrar. En fleiri eða færri ná þó því sem um er kept. Enn aðrir líta út yfir þennan orustuvöll, binda ekki hugann við það sem þar gerist. Það sem þeir þrá liggur fjær. Það er ekki viss umbót á búnaðarhögum sveitarinnar eða héraðsins, ekki vist stjórnarfyrirkomulag hjá þjóðinni, sem þeir starfa fyrir. Það er

velferð alls mannkynsins um alla eilífð sem er þeirra áhugamál.

Séra Matthías er einn af þessum mönnum. Þeir geta ekki náð markinu hér, því það er hinumegin við veraldarhafið, hafið fyrir utan Miðgarð, sem enginn veit hvar endar. Þangað út í óvissuna hvessa þeir sjónir, yfir til þeirra stranda sem allir eiga að sigla til, en enginn hefir komið frá.

Èg skal ekkert um það segja, hve ákveðnar hugmyndir séra Matthías hefir um þær strendur. En hann trúir því, að þar séu sælunnar lönd. Og hann trúir því, að drottinn standi í lyftingu á gnoð mannkynsins og stýri henni að lokum í rétta höfn. Drottinn einn veit, hvert ferðinni er heitið og hið eina skynsamlega er þá, að treysta á hann og trúa því, að alt fari vel. Á þessa leið hugsar séra Matthías þegar hann kveður:

. . . fávís maður . . . . .
. . . haltu fast í herrans
klæðafald!

Lát svo geysa lögmál fjörs og nauða,
lífið hvorki skilur þú né hel.
Trú þú: — upp úr djúpi dauða
drottins rennur fagrahvel.«

En ég er kominn hér að því verkefni sem annar maður hefir tekið að sér, og læt því staðar numið.

*Þorst. Gíslason.*



## MATTHÍAS JOCHUMSSON
## VIÐ LÍKABÖNG.

---

Líkaböng vor er úr þjóðlegum málmi. Djúpir, sterkir og alvöruþrungnir hafa hljómar hennar lifað í landinu. Þeir hafa borið mininngu framliðinna frá kyni til kyns. Á sterkum hljómöldum hafa þeir vaggað sárum sorgum og sviknum vonum ættar vorrar á ýmsum öldum, alt frá því er Egill kvað Sonatorrek og til vorra daga. En í þeim hljómum bærast líka bjartir draumar um líf út yfir gröf og dauða. Í svartnætti sorgarinnar skerpist auga skáldsins, þá tindra honum þær stjörnur, er dagsbirta lífsins hylur sýn, vonarstjörnur, sem benda á betri heima:

Sé eg rof
á svörtu skýi
en stjörnu staka
standa í rofi,
eins og dag
eilífðar sjái
glugga gegnum
grafar skína.

(B. Th.)

Í erfiljóðunum kemur lífsskoðunin fram. Á hvörfum lífs og dauða er bezt útsýn yfir hvorttveggja og samband þeirra sín í milli. Þar gefst skáldinu færi á að sýna skilning sinn á mannlífinu og skarpskygni til að meta rétt gildi einstaklingsins. En vitaskuld er slíkt ekki heiglum hent. Og eins víst og það er, að mörg beztu ljóðin vor eru erfiljóð, eins víst er hitt, að til þess flokks má telja margt af því lélegasta í íslenzkum kveðskap. Líkaböng hljómar eftir því hvernig í strenginn er tekið, og margur hefir því miður ekki fengið úr henni annað en hjáróma háreysti og glamur.

Þar sem eg nú ætla að segja nokkuð um erfiljóð Matthíasar, þá er það fyrir þá sök, að þau eru mikill þáttur í ljóðagerð hans og ekki sá sízti. Hann hefir ort erfiljóð eftir íslenzka menn og konur af öllum stéttum og aldri: Landshöfðingja, amtmenn, sýslumenn, háyfirdómara, yfirdómara, biskupa, prófasta, presta, landlækni og aðra lækna, skólastjóra, kennara og kenslukonur, vísindamenn og skáld, alþingismenn, bændur og búalið, skipstjóra og aðra sjómenn, kaupmenn og aðra verzlunarmenn, eiginmenn, og eiginkonur, ekla, ekkjur og ógift fólk, í stuttu máli, menn og konur, lærða og ólærða, ríka og fátæka á öllum aldri frá vöggu til hárrar elli. Auðvitað eru þessi erfiljóð harla

misjöfn að gæðum, enda dylst skáldinu það ekki. Einhvern tíma sagði hann þetta:

Eg hef sungið fjölda af sálmum,
en söngröddin var ekki hrein,
nú forðast eg falskar nótur
um framliðins vinar bein.

Og ekki veit eg heldur neinn þann, sem ætlandi væri að fylgja öllum þessum sæg, öllum þessum ólíku sálum úr garði jarðlífsins með viðeigandi orðum, syngja þær úr hlaði með viðeigandi sálmi. Hver er svo skarpsýnn eða næmur fyrir eðlisháttum annara, að hann hafi jafnan á reiðum höndum réttan dóm um hvern mann, kunni að meta kosti hans og lesti, vega hann rétt á vogarskálum lífsverzlunarinnar, svo að dóminn megi færa óbreyttan inn í lífsins bók? Erfiljóð og grafletur standa því oft stutta stund — reynast fánýt gylling, sem »aldarkyljan« máir af óðar en varir. En tilgangur erfiljóða er ekki eingöngu sá, að vera minnisvarði, er standi um aldur og æfi. Mörg þeirra eru að eins huggunarljóð, miðuð við líðandi stund, læknislyf til að mýkja sorgina í svip. Þau hafa augnabliksáhrif á aðstandendur, sem þekkja alla málavöxtu, en eru ekki lífsteinn til að græða sár og sorgir þeirra sem fjær standa. En það er augljóst, að þau ein erfiljóð eru sannur skáldskapur, sem eru ekki þannig bundin við rúm og tíma. Hver

mun t. d. hirða um annað eins erindi og þetta, eftir Jón Þorláksson:

Skólans á Hólum hann
heyrari lengi var
og fyrir yfirmann
einneginn kendi þar,
með stórum gáfum gæddur
lærdóm, kostgæfni og lempni bar? —

Líklega enginn, því hér vantar einkenni hins sanna skáldskapar: að gefa efninu svo sérkennilegan og lifandi svip, að það dragi að sér athyglina eða setja það í umgerð, sem bregði yfir það einkennilegum blæ, hefja það í æðra veldi, sem það lifir og hrærist í. Þessi gáfaði, lærði, kostgæfni og lempni heyrari, sem einneginn kendi fyrir yfirmann á Hólum, dregur ekki að sér athyglina. Í þessum hólkvíða dygðaskrúða sést ekki vöxtur og einstaklingseðli mannsins, þar markar hvorki fyrir legg né lið. Vér sjáum ekki heldur líf hans sem þátt í sjónleik mannlífsins, sjáum hann ekki sem starfandi kraft í stærri heild. Í stuttu máli: þessi heyrari kemur oss ekkert við.

Annað verður uppi á teningnum, þegar Bjarni Thorarensen talar um Sæmund Hólm:

Hví var hugvitsmaður
heimskur talinn,

og aðra elskandi
unt af svo fáum?
Hví var hann hrekkvísra
og heimskra skotmál,
og fal að hjarta snúið,
þá faðm hann bauð?

og segir oss svo ástæðuna:

að hann batt eigi
bagga sína
sömu hnútum
og samferðamenn.

Þetta vilja allir vita, þessu svari gleymir enginn, því þaðan er útsýn svo langt sem mannlífið nær. Vér viljum líka hlusta á Steingrím Thorsteinsson, þegar hann er að lýsa Sigurði málara og minnir á reynarunninn:

Á bjargi- reynirunn eg sá
sitt rauðgrænt limið hefja,
úr klungururð hann óx í þrá
við alt sem vildi kefja,
og sízt þó fengi sólu mót
í sannri hæð að skarta
í sannri dýpt hann seigði rót
við sinnar-móður hjarta.

Þetta finnur hver maður að ekki er sagt í dag og gleymt á morgun, að þessi mynd gleymist ekki meðan reynir festir rætur í okkar kalda landi.

Með þessum formála vildi eg sagt hafa, að þau ein erfiljóð hefðu skáldlegt gildi, sem

megnuðu að bregða birtu skilnings og samúðar yfir líf hins látna. Vér viljum sjá hinn framliðna endurborinn í hug skáldsins í mynd, sem greini hann frá öðrum mönnum; vér viljum hafa betri útsýn yfir mannlífið eftir en áður, vér viljum að skáldið hrífi oss með sér, neyði oss til að líta sínum augum á líf einstaklingsins, á líf og dauða. Eitthvað af þessu viljum vér að minsta kosti heimta af hverju erfiljóði, til þess að það geti talist skáldskapur.

Lítum svo á erfiljóð Matthíasar. Í hverju er styrkur þeirra fólginn? Gestur Pálsson sagði í ritdómi sínum um kvæði Matthíasar: »Náttúrleg afleiðing af því að Matthías er trúarinnar skáld er sú, að hann er slíkt afbragð erfiljóðaskáld sem hann er. Fyrir hinn sanna trúmann er grafarbakkinn sá sjónarhóll, sem líta skal frá yfir tíð og eilífð og allir hæfileikar mannsins, alt starf hans og raunir fá fyrir trúmanninn þá fyrst rétta þýðingu, þegar slíkt er skoðað frá sjónarmiði dauðans». Þetta er eflaust að nokkru leyti rétt athugað. Matthías er trúar-skáld. Margir sálmar hans eru eflaust einhverjir hinna allra beztu, sem ortir hafa verið á íslenzku, í þeim er andríki, voldugur kraftur og víðsýni, en líka barnsleg einfeldni. Það er

---

[1]) Suðri 1885, bls. 19.

og auðsætt, að trúmaðurinn lítur öðruvísi á lífið en hinn, sem ekki trúir. Sá sem ekki trúir á annað líf, verður að gera reikninginn upp eftir því sem rökin liggja hérna megin, hann »hefir enga ábyrgð keypt í eilífðarsjóð«. Jarðlífsbúskapurinn verður að bera sig sjálfur. Það sem strandar hér, það strandar fyrir fult og alt og fellur ógilt. Og í raun og veru strandar alt, þó nota megi rekaldið í nýjar fleytur, þær stranda líka á sínum tíma koll af kolli:

Kortinu hans er ekkert á,
ekkert nema boðinn. (Þ. E.)

Hver einstök sál verður sem dropinn, er fellur í bili á harðann klettinn eða mjúkan blómbikarinn, glitrar þar um stund, hitnar eða frýs, gufar burt og hverfur. Söguna má segja, ljósbrotinu má lýsa, en sagan er stutt og »endabrend«.

Öðru máli gegnir um trúmanninn. Hann telur alt trygt í eilífðarsjóð og fær því ætíð jöfnuð í reikninginn. Fyrir handan boðann sér hann hilla undir lífsins lönd, þar er öllu bjargað, sem hér strandar:

Vér sjáum hvar sumar rennur
með sól yfir dauðans haf
og lyftir í eilífan aldingarð
því öllu sem drottinn gaf.

Og því verður naumast neitað, að sjóndeildarhringurinn er svipmeiri með hillingum trúarinnar en án þeirra. En hitt er líka víst, að í reikningshaldi trúarinnar er hætta fólgin fyrir erfiljóðaskáldið, freisting til að líta of grunt og fljótlega á jarðlífið sjálft í trausti til þess að alt jafni sig — hinumegin. Allur skáldskapur verður að eiga sér rætur í því, sem vér þekkjum í þessu lífi, og sækja þangað meginmátt sinn, lit sinn og líf. Hugmyndir manna um annað líf eru runnar af því, sem vér þekkjum hér, hugsaðar í líkingu við það, og er þá auðsætt, að þær fá því traustara tak á tilfinningum vorum, sem þær eru skýrari, þrungnari af lífi.

Og það skáld, sem trúir á annað líf og getur sýnt þá trú sína í lifandi myndum, á óneitanlega fleiri strengi á hörpu sinni en hinn, sem trúna vantar. Þetta kemur fram á ýmsan hátt hjá Matthíasi. Tökum t. d. þetta: Skáldið horfir fram; í huganum fylgir það hinum látna í höfn hinumegin:

En far frjáls
þú sem festar leystir
og segl sveigir
til sólarstranda,
tak höfn með þeim
er að helgum brunni
svala sál
þegar sólir deyja.

Ekki verður því neitað, að þessi sýn er fegri, heldur en að sjá skipið stranda, eins miklu fegri og vonin er bjartari en vonleysið. Lífið fær líka annan svip, þegar litið er á það frá því sjónarmiði, er hér segir:

Liggja laundyr
til líknarsala,
sem Ást og Andi
aðeins þekkja;
þaðan er hafsjó
hels að líta:
hverfandi hrím
á hjálmi rósa.

En engum lágfleygum anda gefur slíka sýn. Tökum svo erindi úr erfiljóðum eftir vinnumann; þau eru ort undir nafni húsbónda hans og enda svo:

Sof sætlega,
sól er af tindum,
en í dögum rís
er drottinn kallar.
Ekki muntu síðastur
svefni hrinda.
Hittumst þá heilir,
Halldór bróðir!

Þessi stutta setning: »Ekki muntu síðastur svefni hrinda,« sýnir oss í einni svipan insta eðlismark mannsins, árvekni hans, en í þessu sambandi fær hún nýja þýðingu: Maðurinn er

kominn í nýja vist, og gamli húsbóndi hans efast ekki um að hann verði fljótur að vakna, þegar drottinn kallar hann til æðri starfa. Honum er minnisstætt hve fljótur hann var á fætur. Fyrri hluti erindisins er líka fagur; sólarlag og sólarupprás verða ímynd andláts og upprisu til nýs lífs.

Varla hefir annað skáld skapað fegri líkingu um lífið og dauðann en þessi óbrotnu erindi Matthíasar:

Dauðinn er lækur, en lífið er strá,
skjálfandi starir það straumfallið á.

Hálfhrætt og hálffegið hlustar það til,
dynur undir bakkanum draumfagurt spil.

Varið ykkur, blómstrá, á bakkanum föst,
bráðum snýst sá lækur í fossandi röst.

Og svo niðurlagið:

Dauðinn ers hafsjór, en holdið er strá,
en sálin er sundlétt og sökkva' ei má.

Með þessum fáu dæmum hef eg viljað sýna hvernig Matthíasi gefur stundum sýnir yfir lífið og dauðann, fagrar og skáldlegar, einmitt af því að hann stendur á sjónarhól trúarinnar. En þrátt fyrir það tel ég ekki aðalstyrk Matthíasar sem erfiljóðaskálds í því fólginn, að hann er

trúmaður jafnframt. Einmitt mörg þau erfiljóð hans, sem eg tel fegurst og skáldlegust, draga ekki aðalstyrk sinn þaðan, heldur er hitt aðalatriðið, að atburðurinn sjálfur tekur hug hans föstum tökum, gagntekur hann og leggur honum vængjuð orð á varir. Endurminningarnar streyma fram; hann lítur yfir æfi hins látna, minnist þess hvað hann var, hvað hann starfaði, elskaði, hataði, hvað hann þoldi og stríddi, eða hann minnist þess hvað honum og skáldinu fór á milli. En stundum sér hann lífslok hins látna í stórfeldri sýn, og einmitt þar kemst hann hæst.

Matthías hefir ort kvæði um nokkur mikilmenni sögu vorrar: Snorra Sturluson, Jón Arason, Guðbrand Þorláksson, Hallgrím Pétursson, Eggert Ólafsson. Þessi kvæði eru náskyld erfiljóðum hans. Skáldið lætur þessa menn rétt fyrir andlátið líta yfir líf sitt, stríð þess, sigur og ósigur, eða hann heimsækir þá í anda þar sem þeir hvíla á banabeðnum og rekur raunir þeirra. Sérstakt er kvæðið um Eggert Ólafsson, sem er sönn perla. Vér skulum snöggvast virða það fyrir oss. Skáldið lítur til veðurs:

Þrútið var loft og þungur sjór
þokudrungað vor.
Það var hann Eggert Ólafsson,
hann ýtti frá kaldri Skor.

Hér er lesandinn undir eins með á nótunum. Veðrið legst illa í mann og geigurinn vex, þegar maður sér hann speglast í svip hins gamla þuls, sem í næstu vísu kemur fram á sjónarsviðið, hann verður einskonar loftþyngdarmælir — spáir ofviðri. Svo kemur samtalið, stutt, en ógleymannlegt. Vér sjáum ýtt frá landi, sjáum siglinguna:

Knúðu rastir knerrir tveir;
komið var rok um svið;
síðasti fugl úr fjarri Skor
flögraði á vinstri hlið.

Og þannig er lýsingin öll; henni skeikar hvergi, með hverju orði er nýjum drætti bætt við myndina. Bein frásögn skáldsins skiftist á við orð skipverja, uns alt er horfið og vér heyrum andvörp landvættanna. Í engu öðru íslenzku kvæði, sem eg þekki, finnst mér slík undiralda þjóðvísunnar. Alt ein sýn, ofin í þunglyndi.

Í erfiljóðunum sér hann líka sýnir. Stundum bregður þeim fyrir sem leiftri:

Reið eg um nóttu,
þá var nýmáni,
þaut logleiftur,
laut eg af ótta.
Það var kynfylgja,
kom úr vestri,

þann drottins dag
dóstu, frændi.

Hugboðið þýtur hjá sem hrævareldur, kemur og fer eins og kaldur uggur. En stundum varir sýnin lengur, ein myndin rekur aðra, gerð úr garði með rausn og ríkilæti auðugs ímyndunarafls. Tökum t. d. erfiljóðin eftir Dr. Guðbrand Vigfússon. Sú sýn er »heilagleg og stórmerkileg«, eigi síður en sýn Ólafs konungs. »Að rita um kvæði er að tilfæra þau,« sagði einn rithöfundur nýlega, og eg get ekki stilt mig um að tilfæra þetta kvæði óskert:

Út í Öxnafurðu,
Engilsaxa hliðskjálf, —
þar sem hundrað hörga
helgar bjarkir skyggja,
þar sem guðvé gnæfa
goðkunnust með Englum —
út í Öxnafurðu
eitt sinn var mér reikað.

Sá ég sem í draumi
sjúkan mann á beði —
feigð lá fast á brjósti —
fæðast í ljós annað.
Hávamál nær höfði,
Heimskringla nær brjósti,
en við hjartað hvíldu
Hallgríms ljóðin dýru. —

Brunnu ljós um líkbekk,
leiftri brá um sali,
stórhöfðingjar stoltir
störðu á svip hins fróða,
andans furstar Engla,
Elfráðs kyn ið ríka,
hneigðu barni bornu
und brotnum Íslands-ljóra.

Leit ég lár og pálma,
lýsti »prócessía«,
höfuðkirkju háa
hymnar svásir fylla;
kanzlarinn af kóri
klæddur vígsluskrúða
biður hljóðs og hjalar
hvellu Drottins orði:

»Íslands óskmögur,
Englands kjörsonur,
einn hinna átján
ódauðlegu
Leggið hann látinn,
lári vigðan,
við hlið vorra frægstu
fjölvitringa.«

Svöldi björk og buldi,
borgar dóu sorgir,
huldi stöðvar hölda
húm og dánar-rúmin.
Líða sá eg leiðir
leiðastjörnu breiðar
(nátt gekk nærri óttu),
nýja prócessíu.

Komnir voru kynstórir,
kend-ag fullgerla
veri vígbjarta,
vörðu sigþjóða,
Austmenn alspaka,
Ingólfs fóstbræður,
Fróns hins fránleita
föðurbetrunga.

Lutu lýðfrægir—
lýstu forngeirar—
lögðu lyngskúfa
á leiði mærings:
Egill hinn afrendi,
Ari hinn forspaki,
Sæmundr hinn sannfróði,
Snorri hinn þjóðmæri,
Gissur og Ísleifur,
Jón hinn helgi—
þar stóðu þusund
þjóðmæringar.

Glömruðu gunnhlífar.
en ég geigs kendi.
hlömmuðu hásalir,
hurfu goðmegin.
Hrannir fóru helsingja
hátt á blálofti,
iðuðu blikvængir
við beran mána.

Ein var eftir kona
eyðilegt við leiði.
heldur há og aldin,
hreld í sorgar-feldi.

Heyrðag yfir herðar
(hrundu tár á grundu)
hennar, eg sem inni
óm við morgunljóma:

»Far vel, fóstrinn ljúfi,
fræðin mín þú kunnir
fastara og betur flestum
sem eg fæddi á skauti.
Legg ég hér lífgras,
lékstu við það ungur;
því skal hér allan of aldur
ilmur úr grasi.«

Hér rekur hver sýnin aðra. Vér sjáum borgina. Stöðu hennar í menningarsögu Englands er lýst með orðunum »Engilsaxa hliðskjálf.« Skáldið bregður yfir hana miklum heilagleik. Þar eru »hundrað hörgar«, «helgar bjarkir«, »goðkunnust guðvé,« og dettur manni ósjálfrátt í hug það sem stendur í Eddu: »ok er þar alt guðleg vörn fyrir.« Svo sjáum vér banabeðinn; vér gætum að því hvar Hávamál, Heimskringla og Passíusálmarnir liggja, sjáum stórmennin »hneigja barni bornu und brotnum Íslands ljóra,« vér sjáum útförina; þá kemur ný processía, það eru fornmenn, og loks stendur kona eftir við leiðið, — það er Saga.

Alt er þetta svo stórmannlegt í sniði, málið svo tígulegt, hljómskært og andríkt, að leitun

er á tignari erfiljóðum. Og með öllum þessum ytri táknum er manninum lýst — óbeinlínis: Segðu mér hvern þú umgengst, ég skal þá segja þér hver þú ert.

Annað dæmi er kvæðið eftir Helga biskup Thordersen: Skáldið stendur yfir líkbörum hans í kirkjunni. Alvara dauðans hvílir þungt á huga hans. Hann sér sem í draumi siglingu manna um lífsdjúpið: einangrið, stefnuleysið, áreksturinn, andþófið, hrakningana. Það dregur upp dimmviðri með skruggum, hreggi og hvössum þotum; sjórinn fer að ókyrrast:

bárur lifnuðu
bárur dóu,
alt var ömurlegt,
spáði ofviðri.

Hann hrekkur við, heyrir hljómhvella og hrausta rödd, sér skörulegan mann í skipsstafni; hann heldur á helgum dómi, það var leiðarsteinn, er til lands benti:

Tóku viðbragð
á víðu sviði
bjargþrota bátar
— en breyttist draumur.
Sá ég hinn hvellmála
skrýddan hvítu líni,
helgilíni dauðans,
— það var *Helgi* biskup.

Hvað vinnur nú skáldið með slíkum kvæðum? Höfum vér fengið úrlausn á hrakning-

um mannlífsins, stríði þess og striti? Að vísu ekki. Vér stöndum þar sem vér stóðum í byrjun kvæðisins, atburðurinn verður í sjálfu sér hinn sami eftir sem áður, en skáldið hefir lagt yfir hann einkennilegan blæ, sem hrífur hugann. Það er eins og lífið fái nýja vígslu, er það speglast í sálardjúpi skáldsins, fái þar hreinni og heiðari svip, þó aðaldrættir þess séu samir við sig. Í þessum kvæðum leggur skáldið ekki dóm á hina framliðnu, en þegar maður gengur frá gröfinni lifir einhver ómur af orðum skáldsins í huganum — sá ómur er viðlag úr lífi hins látna.

Þá eru kvæðin, þar sem skáldið minnist á samlíf sitt og hins látna. Af þeim þykja mér hvað bezt kvæðin eftir Sigurð Vigfússon og Jón prófast Hallsson. Kvæðið eftir Sigurð byrjar svo:

Hangir oss hjör
yfir höfuðsvörðum,
senn er hver síðastur:
Sigurður horfinn.
Heyrist mér hófdynur,
hringir í eyrum.
Veikstu um vafurlogann?
Veiztu enn eða hvað?

Sátum við Sigurður
saman feldum hugi
oft meðan aðrir

örváfaðir sváfu
Sóttum í samvígi
svárar myrkviður
ókum einhuga
til Jötunheima.

Hleyptum við á hugskíðum
til Hindarfjalla,
fundum Völsunga,
vógum að Fáfni,
sáum árborna
frá Sevafjöllum
Sigrúnu svífa
yfir Singasteini.

Horfðum úr Hliðskjálfi
meðan heimur dundi,
blossa sáum bálfarar,
börðust verþjóðir,
hruðust heimsálfur,
hrundu veraldir,
síðan — eftir heimsslit —
við að sofa gengum.

Varla getur annað lýst Sigurði betur en þessar endurminningar um hamfarir þeirra vinanna gegnum allar fornsögur, unz veröldin er hrunin og heimsslit komin. Ég minnist þess, að eina skiftið sem ég sá Sigurð fór hann einmitt slíka gandreið með öðru skáldi (P. Ó.) og er mér minnistætt hvernig karlinn logaði og brann og færðist á loft þegar hann rifjaði þannig upp »forn rök fíra.« En síðari hluti kvæð-

isins, þar sem Matthías lýsir Sigurði, er engu síðri en byrjunin.

Stundum bregður Matthías fyrir sig líkingum, eins og í þessum vísum eftir föður hans:

Þú varst eitt af trjánum á vindkaldri jörðu
með viðkvæmu laufin og stofnana hörðu.

Hið innra var máttugt og auðugt og hlýtt,
hið ytra var hrufótt og stórt og grýtt.

Fögur er líkingin af maríuerlunni í kvæðinu eftir Baldvin kaþólska:

Meinlausa milda
maríuerla,
til hvers er för þín
í fanna heima?
Til að lofa guð
fyrir lítið korn
og hrekjast svo heim
með hauustnæðingum.

En langoftast er lýsingin bein. Skáldið segir oss frá mönnunum í stórum dráttum eða lýsir sorginni, sem atburðurinn vekur hjá honum. Og það sem gefur mörgum þeim kvæðum langlífi, það er hin magnaða málkyngi skáldsins, hann »dregur arnsúg í flugnum» og hrífur með sterkri orðgnótt og andríki. Kveðandi Matthíasar er ættuð beint frá beztu fornskáldum vorum og það er því engin tilviljun,

að mörg beztu erfiljóðin hans eru kveðin undir fornum háttum. Og þegar hann slær ljóðfák sínum niður á hrynhendu, þá er heldur en ekki ferð á honum, t. d. í hinu ágæta kvæði eftir Hjaltalín landlækni, sem flestir munu kunna.

Eg get ekki stilt mig um að taka enn nokkur dæmi. Þetta erindi er mælt af munni fram eftir Berg Thorberg landshöfðingja:

Aldrei er svo bjart yfir öðlingsmanni,
að eigi geti syrt eins sviplega og nú;
og aldrei er svo svart yfir sorgarranni,
að eigi geti birt fyrir eilífa trú.

Gætum að hvernig mótsetningarnar eru rímaðar saman. Þetta er í erfiljóðunum eftir Einar Ásmundsson í Nesi:

Sýnist oss
er slíkir deyja
sól og sumar
sé á förum,
alt auðara,
alt snauðara,
alt heimskara,
sem eftir hjarir.

Hér eins og víðar verða skáldið og mælskumaðurinn samferða.

Alt verður enda að taka. Erfiljóð Matth. eru svo mörg, að seint væri að minnast á þótt ekki væri nema hin helztu. Eg hefi með þess-

um línum aðeins viljað benda á nokkur atriði, sem mér finst verða að koma til greina, þegar erfiljóð Matth. eru metin. Margs er ógetið, sem aðrir mundu nefnt hafa. Eg get t. d. ekki hér dæmt um það, hve sannar myndir skáldsins af ýmsum mönnum séu. Til þess að dæma það þarf þekkingu, sem eg hefi ekki. En hitt þykir mér víst, að endurbornir í ljóðum skáldsins lifa þessir menn sérkennilegu lífi og starfa þannig áfram svo lengi, sem þau ljóð eru lesin.

Eg hefi aldrei heyrt Matthías halda líkræðu. En þegar eg hugsa um erfiljóð hans, sé eg hann fyrir mér einmitt »sem ljóssins og andans prest«. Hann stendur þá í vígðum reit íslenzks þjóðernis, og horfir mót kvöldroðanum. Eg sé geðshræringarnar líða eins og leiftur yfir andlit hans, og eg heyri hann halda volduga ræðu, tala spámannleg orð um örlög þjóðar vorrar, um stríð og starf, sigur og ósigur, um líf og dauða, og um leið og hann hverfur mér sýn, sé eg árdagsblik bjartra vona í augum hans.

*Guðm. Finnbogason.*



*LEIÐRÉTTING. Á bls. 9, 3. línu, er misprentað „standa“ fyrir „stendur“.*



